# MANNLÍFSMYNDIR

EFTIR

GUÐM. ÁRNASON



WINNIPEG
Prentsmiðja Ólafs S. Thorgeirssonar
1915

# FORMÁLI.

*Eftirfylgjandi erindi hafa flest verið flutt áður á fundum Menningarfélagsins hér í Winnipeg, og við ýms önnur tækifæri. Birtast þau nú hér í nokkuð breyttri mynd. Eins og allir geta séð eru þau um ýms efni og ósamstæð; þau hafa verið skrifuð, oft í flýti, þegar á einhverju hefir þurft að halda til að skemta áheyrendum. Ef tími og aðrar kringumstæður hefðu leyft, hefði ég kosið að láta sum þessi erindi vera nokkuð fyllri og betur úr garði ger. En fólk er beðið að taka til greina, hverrig þau eru til orðin, og dæma þau eftir því.*

*Winnipeg 27. ágúst 1915.*

*GUÐM. ÁRNASON*

# MENTUN.

---

Í daglegu máli er oft talað um mentaða og ómentaða menn. Mentaðir menn eru þeir sem hafa gengið skólaveginn, sem kallað er, það er að segja, þeir sem hafa eytt nokkrum árum við nám í einhverjum svo kölluðum hærri skólum. Ómentaðir eru þeir sem hafa annaðhvort ekki gengið á neinn skóla eða þá að eins á alþýðuskóla. Mentuðu mennirnir eru fáir í samanburði við hina; þeir eru ein konar útvalinn flokkur, sem hefir al[illegible] þekkingu á sínu valdi. Hinir ómentuðu aftur á móti hafa litla þekkingu, eða það má ekki við öðru búast hjá þeim. Og svo er þeirra þekking í rauninni ekki mentun, því þá vantar mentunarinnsiglið, sem skólagangan setur á menn. Auk þessara tveggja, vel aðgreindu flokka, eru til tveir aðrir, sem standa eins og mitt á milli þeirra: hálfmentaðir menn og sjálfmentaðir menn. Hálfmentaðir eru þeir, sem ekki hafa komist nógu langt í skólagöngunni til þess að

verða verulega mentaðir; og sjálfmentaðir eru þeir, sem einhverri mentun hafa náð án skólagöngu. Hinir sjálfmentuðu standa miklu nær þeim ómentuðu heldur en hinir hálfmentuðu.

Eitthvað lík þessu er sundurgreining fólks, samkvæmt mentun þess, í almenningsálitinu. Hún hefir það til síns ágætis að hún er ákaflega þægileg; hún er eins einföld, skýr og ákveðin og óskað verður. Hvað getur verið óbrotnara og ákveðnara en tveir flokkar, sem eiga ekkert skylt saman, og svo tveir milliflokkar, sem eru aftur sín á milli vel aðgreinanlegir? Auk þess fylgir þessari skiftingu sá mikli kostur, að það er eins og hún gefi til kynna gildi mentunarinnar. Það er ekki hætt við því að menn hafi óljósa meðvitund um yfirburði mentaða flokksins meðan skiftingin er svona ákveðin í almenningsálitinu; og því síður er hætt við að þeir, sem milliflokkunum tilheyra gleymi, hvar þeir standa.

Það er að eins einn galli á þessari þægilegu og ljósu sundurgreiningu, sami gallinn og er á svo mörgu, sem hefir náð festu í almenningsálitinu og hefð í daglegu máli — hún er röng frá upphafi til enda. Það virðist nú vera æði stór galli; en samt er hann ekki svo óalgengur í almennum hugsunarhætti og skoðunum. Mönnum hefir alt af hætt við því að spyrja ekki eftir sannleiksgildi innihalds-

ins, ef framsetning skoðananna hefir verið dálítið ísmeygileg. Og mörgum andlegum leiðtoga lýðsins hefir það komið að góðu haldi bæði fyr og síðar.

Orðið mentun eða ment er, eins og allir geta séð, náskylt orðinu menning; og bæði eru dregin af orðinu maður, sem upprunalega var mannur, eins og beyging þess ber með sér. Samkvæmt uppruna sínum getur þá orðið mentun þýtt alt, sem yfirleytt einkennir menn og aðgreinir þá frá dýrunum. En það eru andlegir hæfileikar mannsins, sem lyfta honum upp yfir náttúruna. Vegna þess að hann hefir hærra og fjölskrúðugra sálarlíf en dýrin, getur hann notað krafta sína, bæði líkamlega og andlega, til þess að hefja sjálfan sig upp og ná margskonar þroska, sem ekkert annað í hinni lifandi náttúru getur náð. Allur þessi þroski og yfirburðir er menning og mentun. Það sem þessi tvö orð tákna verður ekki nákvæmlega greint í sundur, þó að mentun eigi fremur við eintóma þekkingu, en menning við siði og verklegar framfarir. Það eru andlegu yfirburðirnir og þroski þeirra sem liggja til grundvallar fyrir því öllu.

Meðal forfeðra vorra hafði orðið ment víðtæka merkingu. Sá maður var vel mentur, sem hafði vel þroskaða hæfileika. Það var ment að vera leikinn í einhverju starfi, ef það var vandasamt, eða ein-

hverri íþrótt, alveg eins og það var ment að geta ort, eða vera fróður í lögum. En síðar þrengdist merking orðsins, þangað til það hætti að tákna nokkuð annað en bóknám; og að lokum voru engir kallaðir mentaðir nema þeir, sem á skóla höfðu gengið. Meðan engin alþýðumentun, í þeim skilningi, sem það orð er nú notað, var til, komust að eins örfáir í skóla; og þeir einir mynduðu mentaðra manna flokkinn; allir aðrir voru taldir ómentaðir. Þannig er sú í rauninni hlægilega skoðun orðin til, að mentun sé sama og skólaganga, eða réttara sagt sama og það að hafa eytt ákveðnum árafjölda við einhverjar mentastofnanir, sem eru kallaðar hærri skólar. Þessi aðgreining mentaðra og ómentaðra samkvæmt skólagöngu, sem er svo rótgróin í hugsunarhætti og málvenju okkar Íslendinga stafar frá mesta mentunarleysis tímabili þjóðarinnar. Hin eldri, víðtækari og sannari þýðing orðsins hvarf úr daglegu máli, en í stað hennar kom þröng og ósönn þýðing. Út af því hafa svo myndast önnur eins hugtök og hálfmentaður og sjálfmentaður.

Ómentaður maður er ekki til. Til þess að lifa og starfa í siðuðu mannfélagi, hvert svo sem starfið er, þarf margskonar mentun, þroskun margra hæfileika. Minst af þeirri mentun, sem þarf til þess, fæst í skólum; það er lífið sjálft og reynslan,

sem í rauninni menta menn mest og bezt. Sá maður, sem aldrei stígur fæti inn fyrir dyr í nokkrum skóla, getur haft mikla reynslumentun; og eins getur sá, sem eitthvað hefir í skólum lært, verið mjög snauður af þeirri mentun, ef lífsreynsla hans er mjög takmörkuð. Alt slíkt fer eftir því hversu víðtæk lífsreynslan er og hversu vel menn kunna að nota hana sér til mentunar. Mentun fæst í raun og veru alstaðar, vegna þess að alstaðar eru möguleikar til að þroska einhverja hæfileika. Skólanám og bóknám eru ekki nema lítill hluti allrar mentunar. Það væri ómögulegt fyrir nokkurn mann með heilbrigðri skynsemi að vera með öllu mentunarlaus, nema hann væri frá barnæsku laus við öll áhrif frá siðuðu mannfélagi.

En þótt skólamentunin sé ekki nema lítill hluti allrar mentunar, er hún samt alveg nauðsynleg; og án skóla hlyti allri mentun að hnigna mjög mikið; jafnvel mikið af henni mundi líða alveg undir lok, ef ekki væru til skólar til að halda henni við og auka hana.

Frá því fyrst að einn maður vissi meira en aðrir, vegna þess að hann var skarpskygnari og athugalli en þeir, hefir kensla átt sér stað; hinir fróðu hafa altaf frætt þá fáfróðu. Skólar eru ekkert annað en stofnanir, þar sem að þeir, er vilja fræðast um viss efni, fram yfir það sem

þeim er unt að fræðast af daglegir reynslu, geta fengið fræðsluna fljótt og án mjög mikillar fyrirhafnar. Í skólunum mætast þeir sem geta frætt og þeir sem vilja fræðast, kennarar og námsmenn. Mentunin, sem í skólum fæst er í rauninni ekki annars eðlis en sú mentun sem fæst af reynslunni; þekkingin er hin sama, hvort sem hún er fengin í skóla, eða hún er fengin með athugun og eftirtekt á einhverjum öðrum stað. En skólarnir safna saman þekkingu. Þeir gjöra mönnum auðvelt að ná henni, þeir hjálpa mönnum til að mentast með því að fræða þá og með því að kenna þeim að nota athugunargáfu sína. Því betur sem skólarnir kenna mönnum að læra og athuga alstaðar þar sem unt er að læra og athuga, því gagnlegri eru þeir.

Markmið hærri skóla er þá ekki eingöngu það að veita fræðslu, heldur og að auka þekkingu manna með rannsóknum. En það verk gætu þeir ekki leyst af hendi, ef gildi mentunarinnar væri ekki metið eftir neinu öðru en því, hvaða gagn hún gjörir sem undirbúningur fyrir lífið. Þekkingin ein og út af fyrir sig verður að hafa mikið gildi í augum manna til þess að þeir reyni að auka hana og útbreiða. Skólamentun yfirleitt verður að skoðast sem almennur andlegur þroski, ef hún á að vera nokkuð annað en einhliða undirbúningur

fyrir einhver viss störf. Og þannig hafa menn oftast litið á mentun. Vitaskuld hefir ekki öll fræðsla sömu þýðingu fyrir andlegan þroska; sumt, sem kent er í skólum hefir að líkindum lítil eða engin mentandi áhrif á nemendur. Þess vegna er sú skoðun á rökum bygð, að skólamentun eigi að haga eftir því sem gagnlegast sé. En alveg er það rangt á litið að öll mentun sé gagnslaus, sem ekki hefir praktíska þýðingu.

Það hefir lengi brunnið við hjá okkur Íslendingum, að við höfum misskilið tilgang skólamentunar. Lengst af hefir það verið almennasta skoðunin meðal okkar, að menn ættu að ganga "skólaveginn" til þess að verða embættismenn, eða að minsta kosti til þess að komast í einhverjar skárri stöður fyrir ofan bændur og alþýðufólk. Allir íslenskir skólar hafa því verið skoðaðir sem undirbúningsskólar, jafnt þeir sem veita almenna mentun og hinir, sem undirbúa menn fyrir viss störf og stöður. Hér hjá okkur Vestur-Íslendingum loðir þessi skoðun við. Okkar hugmynd er sú að skólanámið eigi eingöngu að vera til þess að hjálpa mönnum til þess að "komast áfram," eins og að orði er komist. Reyndar er það stundum nokkuð óákveðið við hvað er átt með orðunum: "að komast áfram," en vanalega er átt við með þeim, að ná í góða atvinnu, eða komast í góð efni, eða

eitthvað líkt því. Það er ekki gildi mentunarinnar sjálfrar, sem við erum að hugsa um svona yfirleitt, heldur notin, sem má hafa af henni til þess að bæta lífskjörin. Mentunin út af fyrir sig hefir víst heldur smátt gildi í augum okkar flestra. Þetta sést bezt af því hvaða augum er alment litið á barnaskólamentunina. Það er nóg að krakkarnir læri málið, enskuna; því hún er fyrsta og helzta skilyrðið til þess að komast áfram. Margir íslenskir foreldrar láta börn sín alveg hætta við barnaskólanám, þegar þau eru búin að læra svo mikið í málinu að þau geta bjargað sér. Og sjaldnast er það gert út úr neyð, þó að það geti stundum átt sér stað, heldur af eintómu hirðuleysi og skilningsleysi. Fólk kann ekki að meta gildi almennrar mentunar fyrir andlegan þroska og "karakter"-myndun barnanna. Og við því er heldur ekki að búast, því það er vant við þá skoðun, að öll mentun sé undirbúningur fyrir einhverjar stöður og ekkert annað.

Sami misskilningurinn á sér stað viðvíkjandi því sem nefnt er hærri mentun. Það að ganga á hærri skóla á að vera lykill að einhverjum atvinnugreinum, sem eru lokaðar fyrir almenningi. Mentunin er góð ef hún hjálpar mönnum til að "komast áfram," ef hún lofar gulli og grænum skógum í framtíðinni; annars er hún lítils virði, ef ekki gagnslaus. Svona

hugsa víst flestir; bæði þeir sem á skólana ganga og aðrir. Þess vegna vilja flestir íslenzkir námsmenn verða lögmenn; það er leiðin til stjórnarembætta og annara slíkra gæða. Þar næst er læknisstaðan, því hún er oft arðvænleg. Auðvitað eru til íslenzkir námsmenn, sem að sýnilega hafa lagt sig eftir námi vegna mentunargildisins, sem það hefir; en fyrir flesta er það ekkert annað en vegur til að "komast áfram". Þetta hefir líka stöðugt verið brýnt fyrir íslenzkum námsmönnum hér. Íslenzku blöðin hafa sungið þeim lof og borið á þá hlægilegt hól, þó að þeir hafi ekki gert annað en að standa sig sæmilega við próf. Almenningsálitið hefir tekið í sama strenginn. Það hefir skipað námsfólkinu, piltum og stúlkum á ýmsu reki og eðlilega með mjög misjöfnum hæfileikum í sérstakan flokk, er það hefir sett upp á einhvern ímyndaðan frægðartind langt fyrir ofan aðra menn. Þetta hefir, sem von er, skapað þann hugsunarhátt hjá námsfólkinn sjálfu, að það sé útvalinn flokkur, og að það sé skólagangan, skólastimpillinn, sem hefur það upp yfir fjöldann. Og hvernig á fólk með svona þveröfugum hugsunarhætti að skilja hvað mentun er, og hvaða þýðingu hún á að hafa til þess að mynda "karakterinn"? Stephan G. Stephansson segir um mentamennina í einu af kvæðum sínum:

"Þeir koma svo skrítnir úr skólum.
Já, skratt 'ertu fúll, ef þér stökk ekki bros—"

Og svo, eftir að hann hefir lýst tildrinu og líkt því við búningsprjál glysgjarnrar meyjar, sem hleður utan á sig skrauti, án þess að vita hvað á saman, segir hann:

"Og innan í öllum þeim dúðum
Er örlítill mann-kjarni smár eins og fis".

Þetta er alveg rétt lýsing af mörgum skólagengnum mönnum, en það er ekki rétt lýsing af mentuðum manni, sem veit hvað mentun er. Með sannri mentun getur "mannkjarninn" ekki verið" smár eins og fis". Mentunin, hvort sem hún er skólamentun eða lífsmentun, einmitt þroskar kjarnann í mönnum. En til þess að hún geti gert það, verður hún að vera meira en ímynduð upphafning yfir aðra menn, meira en vegur til embætta og vissra atvinnugreina—hún verður að vera þroskun hæfileikanna, ræktun andlegra krafta og líkamlegra, sem hefir í för með sér hina sönnu upphafningu mannsins, upphafninguna, er hin volduga framsókn mannkynsins sýnir bezt af öllu.

Því fyr sem við leggjum niður að aðgreina mentaða og ómentaða menn samkvæmt skólagöngu, því fyr lærum við að sjá hvað mentun og mentunarleysi í raun og veru eru. Við sjáum þá að mentunarleysi er það eitt að hafa ónotaða og óþroskaða hæfileika, en mentun jafnhliða þroskun hæfileikanna; ekki eintóm þekking og ekki einhliða æfing í einhverju

einu, heldur þroskun sem flestra hæfileika: hugsunar í öllum myndum, fegurðartilfinningar, viljakraftar og siðferðismeðvitundar. En enginn er algerlega mentaður; því þó að ekkert nema þekking sé kallað mentun, er enginn maður til, sem hefir alla þekkingu, sem veit alt, er vitað verður. Það er til mentun á háu eða lágu stigi. Það er engin hálfmentun til í þeim skilningi, sem vanalega felst í orðinu; og það er, meira að segja, engin sjálfsmentun til. Menn menta sig ekki sjálfir þó að þeir læri af bókum eingöngu. Höfundar bókanna eru kennarar. Um mentun án kenslu er ekki að tala; hún er ekki til fremur en skæri með einu blaði. En í öðrum stærri skilningi er öll mentun sjálfsmentun: enginn lærir neitt án fyrirhafnar, án þess að gera eitthvað sjálfur; og enginn andlegur þroski á sér staðnema með vísvitandi, eða, ef til vill stundum, óafvitandi, tilraun til að vaxa.

Lífið er bezti skólinn og reynslan er bezti kennarinn. Sá, sem vill mentast verður að nota alla möguleika til að mentast, sem hann á völ á í þeim skóla. Hvort sem möguleikarnir bjóðast honum í skólagöngu, eða aðeins í lestri bóka og eftirtekt og athugun, verður hann að færa sér þá í nyt; að öðrum kosti mentast hann ekki. Hæsta mentunin er að læra í sannleika að vera maður. Það er mentunin sem allir þurfa á að halda,

hvað sem öllum störfum og stöðum líður. Að vera maður er fyrst og fremst að hafa sálarþroska. Og í því verður hin hæsta mentun ávalt falin.

---

## SKÁLDSKAPUR.

Skáldin hafa jafnan verðið eftirlætisgoð Íslendinga. Og það hafa þau verið ekki að ástæðulausu. Mörg þeirra hafa verið mestu og beztu andlegu leiðtogarnir, sem þjóðin hefir átt; og íslenzk alþýða hefir verið svo hneigð til skáldskapar, að hún hefir eflaust þekt betur og skilið skáld sín en alþýða nokkurrar annarar þjóðar.

Ekki þarf annað en að renna augum mjög fljótlega yfir sögu íslenzkra bókmenta til að komast að raun um að skáldskapurinn er þjóðinni eiginlegur og á sér djúpar rætur í lífi hennar. Til forna voru Íslendingar langmesta skáldskapar þjóðin á Norðurlöndum. Mörg íslenzk skáld urðu, eins og öllum er kunnugt, nafnfræg erlendis. Hvort sem Eddukvæðin hafa verið ort á Íslandi eða ekki, skarar íslenzki skáldskapurinn á tíundu og elleftu öld langt fram úr skáld-

skap annara Norðurlandaþjóða um það leyti. Og að víkingaöldinni endaðri komst sagnaritunin á hæsta stig í landinu sjálfu. Það vita allir, sem á annað borð eru fornsögunum nokkuð kunnugir, að í þeim er mjög mikið af skáldskap. Að vísu eru sögurnar ritaðar um viðburði, sem hafa átt sér stað, eða sem ráð er gert fyrir að hafi átt sér stað, og persónurnar í þeim eru sögulegar persónur, en víða kemur hið skáldlega ímyndunarafl höfundanna í ljós. Stíllinn er oft hreinn skáldskaparstíll ; miklu betur til þess fallinu að hrífa hugi lesendanna en að veita þeim fræðslu um eitthvað, sem í raun og veru hafi gerst.

Frá því á söguöldinni og þar til nýrri tíma bókmentir hefjast, var skáldskapurinn, eins og flest annað í niðurlægingu. Á þeirri hörmungaöld kyrkju- og kaupmannakúgunar var skáldskapurinn, eins og andlega lífið í heild sinni, þróttlaus og ófrumlegur. Hjátrúin og fáfræðin döfnuðu eins og illgresi í illa hirtum akri. En samt sem áður er mikið til af skáldskap frá þessu tímabili. Til eru helgikvæði, sem að dómi þeirra, er skyn bera á, eru ekki laus við skáldskaparlegt gildi ; allur þjóðsagnaauður íslenzku alþýðunnar felur í sér mikið af alþýðuskáldskap; rímur og riddarasögur verða einnig að teljast skáldskapur, þegar um skáldskapinn er rætt frá bókmentasögu-

legu sjónarmiði, þó að margt af þeim skáldskap sé mjög fátæklegt.

Nýrri tíma skáldskapur byrjar með endurreisn þjóðarinnar. Þó að útlend áhrif hafi gert vart við sig í honum, hefir hann læst sig inn í hugi almennings, enda hefir mörg góð og göfug kenning um þjóðarmeðvitund og sjálfstæði borist út með honum. Íslendingar hafa á síðari tímum átt fleiri skáld, bæði stór og smá, en nokkur önnur þjóð, í hlutfalli við mannfjölda; og þau hafa öll verið í afhaldi. Skáldin hafa fundið veg að hjarta þjóðarinnar, vegna þess að þjóðin yfirleitt er svo mikið gefin fyrir skáldskap, er svo ljóðelsk.

Skáldskapur í þeim skilningi, sem orðið er notað hér að framan, er eitthvað fremur óákveðið. Þegar til þess kemur að gera grein fyrir, hvað sé góður skáldskapur og hvað sé lélegur skáldskapur, og hvaða kröfur sé rétt að gera til skáldanna, verður að spyrja, hver séu hin eiginlegu einkenni verulegs skáldskapar; hvað það sé, sem aðgreinir hann frá öðru máli, töluðu eða rituðu.

Skáldskapur er annaðhvort í bundnu máli eða óbundnu; hann getur verið frásögn eða lýsing eða búningur hugsana og tilfinninga skáldanna sjálfra; hann getur birzt í orðum eingöngu eða í orðum og athöfnum (leikritaskáldskapur); og hann getur borist á vængjum tónanna. En í

öllum þessum myndum er skáldskapurinn eitt og hið sama. Hvort sem við horfum og hlustum á leikendur á leiksviði eða lesum kvæði eða sögu, verðum við að finna viss einkenni, til þess að það sem við hlustum á eða lesum geti kallast skáldskapur.

Vegna þess að mest af skáldskap þeim, sem til er á íslenzku máli, er skáldskapur í bundnu máli, má sérstaklega taka ljóðagerðina til íhugunar hér án þess á nokkurn hátt að takmarka skáldskapinn við hana. Og að sjálfsögðu verður að taka hana til íhugunar á þann hátt, að munurinn á þeirri ljóðagerð, sem er skáldskapur, og hinni sem er aðeins hagmælska, komi í ljós.

Eins og fram hefir verið tekið, getur skáldskapurinn verið frásögn eða lýsing að efni til, en hann verður að vera öðru vísi en frásagnir þær og lýsingar, se… ætlaðar eru til þess að fræða. Þegar um vísindalegar lýsingar af hlutum er að ræða, er mest um vert, að hlutnum sé rétt lýst í öllum atriðum; þess vegna er margt, sem virðist vera mjög smávægilegt, tekið fram í þess konar lýsingum. Lýsingar í skáldskap eru, aftur á móti ekki ætlaður til þess að fræða, heldur til að bregða upp myndum fyrir hugarsjónum lesendanna. Myndirnar verða að vekja ímyndunarafl lesendanna og koma þeim til að sjá það sama og skáldið sá.

Vitaskuld eiga skáldskapar lýsingar að vera sannar, en þær eiga einnig að hrífa; ímyndunaraflið á að verða snortið af þeim. Hér eru tvær örstuttar lýsingar af hrafninum, önnur vísindaleg, en hin skáldleg:—"Hrafnar eru alsvartir með stóru nefi. Þeir eru alætur, en hygnir og varir um sig; má kenna þeim orð og þulur og ýmislegt fleira.—Hrafnar eiga heima hvarvetna á hnettinum."

"Opnum þá eg hlera hrindi,
hoppar inn úr næturvindi
aldinn hrafn, en blakkir, breiðir
berja loftið vængir tveir."—

Af fyrri lýsingunni má læra nokkuð um einkenni hrafnsins; en hún er algerlega óskáldleg, hún bregður ekki upp neinni verulegri mynd af fuglinum í ímyndun lesandans. En við lestur síðari lýsingarinnar er eins og maður sjái hrafninn fjúga inn um gluggann og heyri vængjasúginn—hún er skáldskapur.

Í skáldskapar lýsingum er ávalt talað til ímyndunaraflsins. Ef ómögulegt er að tala til þess efnisins vegna, eða ef ómögulegt er að tala svo að lýsingin hrífi ímyndunaraflið, þá ætti hún blátt áfram að ritast til fræðslu, eins og hver önnur lýsing, sem er ætluð til þess, að það sem hún lýsir þekkist af henni. Auglýsingar í ljóðum og rímaðar lýsingar á framliðnum meðalmönnum verða jafnan mjög óskáldlegar, vegna þess að efnið

hrífur hvorki ímyndun skáldsins sjálfs né lesendanna.

Hið sama á við frásögn. Söguleg frásögn fræðir ; skáldleg frásögn hrífur hugi lesendanna og knýr þá til þess að taka einhvers konar afstöðu gagnvart þeim sem frá er sagt. Páll Melsteð skýrir þannig frá viðureign Napóleons mikla og óvina hans við Waterloo :—"Hér var þá eigi um annað að gera fyrir Napóleon en að verja hendur sínar og berjast. Hann hélt því næst norður á Belgíu, því þar voru hans næstu óvinir. Wellington með hundrað þúsund Englendinga og Bluecher með hundrað og tuttugu þúsund Prússa. Napóleon réðist fyrst á Bluecher og vann sigur á honum. Tveim dögum síðar barðist Napóleon við smábæ þann, er Waterloo heitir—við Wellington. En er að því var komið að Wellington léti undan síga, kom Bluecher með Prússaher og rétti við bardagann. Máttu Frakkar eigi við því ofurefli og snérust á flótta. Napóleon lagði völdin niður í annað sinn."

Í þessari frásögn er sagt frá því sem skeði í hinni nafnkendu Waterloo orustu. Frásögnin er gerð sem ljósust og einföldust ; hún er ætluð til þess að fræða um viðburðinn. En hún hrífur ekki, enda er það ekki tilgangur höfundarins. Manni stendur alveg á sama um Napóleon, þó að því sé lýst vel og greinilega,

hvernig hann fór halloka fyrir Wellington og Bluecher. Lesi maður svo það sem Benedikt Gröndal segir um sama viðburð í kvæði sínu Napóleon, verður alt annað uppi á teningnum. Maður er snortinn og gengur ósjálfrátt í lið með Napóleon meðan á lestrinum stendur :—

Um tíu ár af tignum ríkisstól
tindraði sprotinn, sterkri valdinn hendi,
sem jörð og himinn þrumublossi brendi
blikaði skær og mögnuð frægðarsól.
Við Eylan og við Austerlitz nam drynja
alvaldar boð og Hildur logum spjó,
unz einnig mesta hetjan varð að hrynja
helkaldri fyrir norn—Ó Waterló!"

Skáldskapar einkennið í frásögninni er, að hugurinn er snortinn af því sem skáldið segir. Hinn voldugasti og frægasti þjóðhöfðingi, sem var uppi í heiminum beið ósigur við Waterloo. Til þess að hrífa hugi lesendanna, verður skáldið að láta hetjuna standa þeim eins og lifandi fyrir hugarsjónum mitt í óförum ósigursins. En til þess verður að bera saman hið fyrra veldi og niðurlægingu ósigursins. Frásögnin hrífur, hún hefir kraft, sem ekki er til í frásögn söguritarans—hún er skáldleg.

Það er aðaleinkenni alls góðs skáldskapar, að hann hrífur hugi lesendanna. Að vísu ber meira á þessu í þeim skáldskap, sem birtir hugsanir og tilfinningar skáldsins sjálfs en í frásögnum og lýsingum, en það er í öllum skáldskap. Þegar

skáld segir frá eða lýsir, þá eru skáldsins eigin hugsanir og tilfinningar ofnar inn í frásögnina eða lýsinguna; og það eru þær sem hrífa.

Í skáldsögum verða sögupersónurnar að hafa áhrif á lesendurna með því sem þær segja og gera. Ef höfundinum tekst ekki að útbúa að minsta kosti eina persónu í sögunni þannig, að hún eins og knýi lesendurna til að taka einhvers konar afstöðu gagnvart sér, þá er sagan mjög léleg; og það þó að hún sé full af vel meintum kenningum. Í sögu Gests Pálssonar, "Kærleiksheimilið," hrífa tvær persónur hugi lesendanna og vekja samúð og óbeit. Sakleysi og einstæðingsskapur Önnu knýja þá til að taka samhygðar afstöðu gagnvart henni; og frekja og harðúð Þuríðar knýja þá til að vera á móti henni. Mótsetningin í þessum tveimur persónum gerir söguna áhrifamikla; en þó mest vegna þess að hún er eðlileg og öfgalaus. Í sögu Einars Hjörleifssonar, "Vonir" er aðeins ein persóna, sem maður kærir sig nokkuð um; sú persóna er Ólafur. Hann dregur samhygð lesandans að sér, hin stórkostlegu vonbrigði hans—stórkostleg fyrir mann af hans tægi—krefjast meðkenningar. Í báðum þessum sögum eru persónur, sem vekja vissar tilfinningar hjá lesendunum og skilja eftir áhrif í hugum þeirra. Þær hafa í ríkum mæli skilyrðin, sem allar

skáldsögur verða að hafa eitthvað af, til þess að geta náð varanlegu haldi á hugum fólks.

Hrífandi kraftur, sem hvetur ímyndunaraflið og snertir tilfinningarnar er þá einkenni alls góðs skáldskapar. Smáskáldin (náttúrlega ekki allir sem lítið yrkja) hafa ekki þennan kraft. Kvæði þeirra geta verið snotur, þau geta látið vel í eyrum, en þau hrífa ekki, þau skilja ekki eftir nein ummerki í huga lesandans.

Annað einkenni hins bezta skáldskapar er sannleikurinn. Í öllum stórfeldasta skáldskap heimsins er djúpur sannleikur. Ímyndunarafl skáldsins dregur saman í fáa, skýra drætti sannindi, sem skynsemin finnur með langri leit og mikilli fyrirhöfn, en sem ekki eru, þrátt fyrir það, falin einhverstaðar þar sem erfitt er að komast að þeim. Allur stærsti og þýðingarmesti sannleikur mannlífsins verður ávalt viðfangsefni skáldlegrar ímyndunar. Hvað er Hamlet Shakespeares annað en stórkostleg lýsing ýmsra tilhneiginga, sem ávalt fylgja mannkyninu, og koma í ljós í lífi þess á ótal margan hátt?

Hið mikla gagn hlutsæisstefnunnar svo nefndu í skáldskap er það, að hún leggur áherzlu á sannleikann í efni skáldskaparins; hún er andstæð allri uppgerð og óeðlilegri meðferð allra eiginleika mannssálarinnar. En hvaða stefnu sem skáldskapurinn tilheyrir, þá er það aðeins

lakari skáldskapur, sem fjarlægist sannleikann og verður uppgerðarlegur. Það var gallinn á miklu af skáldskap rómantísku stefnunnar svo nefndu, meðan hún var í mestu gengi.

Samlíkingarnar, sem skáldin nota, sýna vel, hversu glögt auga þau hafa fyrir því sanna og verulega, hversu skarpskygn andi þeirra er. Samlíkingar eru fyrst og fremst ætlaðar til þess að gera hugsunina ljósari og auðskildari, og málið viðfeldnara og fjörugra. Þegar hugsunin er óskýr, eða hugurinn eins og nær ekki tökum á því, sem verið er að lýsa, verða samlíkingarnar óeðlilegar og þvingaðar. Góð skáld nota ekki aðeins fagrar og skáldlegar samlíkingar, heldur sannar, þær sem gera sannleika efnisins auðskildari og ljósari. Einar Benediktsson lýsir næturkyrð með þessari samlíkingu :—

"Náttúran öll er svo köld og kyr
sem kyrkja þögul, með auðum bekkjum."—

Hér verður sannleikurinn, sem skáldið skýrir frá, kuldi og kyrð náttúrunnar á vetrarnóttu, margfalt auðskildari og festist betur í huga lesandans, vegna þess að náttúrunni er líkt við kalda, þögula og tóma kyrkju. Kvæði Þorsteins Erlingssonar "Brautin" er alt ein samlíking. Framsóknarbaráttu mannkynsins er líkt við ferð yfir fjöll og firnindi. Engan vegin öðru vísi en með samlíkingum væri

unt að setja þann mikla sannleik fram í einu kvæði ; og samlíking Þorsteins er bæði sönn og snildarfögur. Þegar Stephan G. Stephansson lýsir svartadauða, segi hann ekki að margir hafi dáið, heldur :—

"Líkhús urðu allir bæir
og að náhjúp sérhver vefur.
Yfir val, sem enginn grefur,
ísaþoka dauðans sefur."

Samlíkingin gefur ljósa hugmynd um ástandið, sem skáldið hefir í huga ; miklu ljósari hugmynd en unt væri að gefa með langri lýsingu samlíkingarlausri.

Sannleikurinn í skáldskapnum verður stundum að speki, óvenjulega glöggri athugun á lífinu, sem birtist í örfáum orðum. Ekkert íslenzkt skáld er annar eins lífsspekis-kennari og Steingrímur Thorsteinsson. Það nægir að benda á þessa vísu eftir hann :—

"Ei vitkast sá, sem verður aldrei hryggur,
hvert vizku barn á sorgar brjóstum liggur.
Á sorgarhafs botni sannleiksperlan skín,
þann sjóinn máttu kafa, ef hún skal verða þín."

Þegar skáldið flytur einhvern boðskap, þá er ekki aðeins sagður sannleikur, heldur sagður á þann hátt að skáldskapurinn á að hafa sérstök áhrif á vilja lesendanna. Hann á að hvetja,koma mönnum ekki aðeins til að sjá það sem skáldið sér, heldur líka til að gera það sem hann vill. Í þess konar skáldskap er eitthvað af eldmóði, ef skáldið, sem boðskapinn

flytur, er verulegt skáld. Í mörgum kvæðum eftir Matthías Jochumsson er eitthvað hvetjandi og upplyftandi, það er eldmóður í þeim mörgum. Hér er eitt erindi, tekið af handa hófi :—

"Upp, upp, þú Íslands son,
ókomna tímans von,
áfram og efldu þig sjálfur!
Í þér býr andi stór
eilífra kraftra sjór ;
enn ert þú ei orðinn hálfur."

Hagmælska er annað en skáldskapur. Sum stórskáld eru óhagorð. Hagmælskan er leikni í því að raða orðum í rím. Hún hefir ekkert af hinum hrífandi krafti skáldskaparins. Í henni er ekkert af djúpsæi eða víðfeðmi andans, sem finst í verulegum skáldskap. Það er aðaleinkenni allrar ljóða-hagmælsku, að rímleiknin yfirgnæfir efnið. Hugsanirnar eru hversdagslegar, yrkisefnin smá og fátækleg, en búningurinn snotur áferðar Orðin láta vel í eyrum, en þau hafa engin dýpri áhrif en það,að láta vel í eyrum.

Hagmælska er auðveld á íslenzku máli, vegna hins létta og leikandi ríms, sem er íslenzkri ljóðagerð eiginleg. Það þarf ekkert annað en æfingu í því að ríma til þess að vera hagyrðingur. Það þarf enga skáldlega gáfu til þess. Vitanlega eru ekki allir, sem kallaðir eru hagyrðingar, æfinlega óskáldlegir ; margir þeirra eru brot úr skáldi ; en það eru til hagyrðingar, sem eru alls ekki skáld í nein-

um skilningi, heldur aðeins leiknir rímarar. Og slíkir rímarar hafa ávalt verið í miklu afhaldi hjá íslenzkri alþýðu. Rímlist þeirra, sem er oft aðdáunarverð út af fyrir sig, hefir náð hylli hjá þjóðinni; og oft hefir hún verðið skoðuð sem aðaleinkenni skáldskaparins. Að nokkru leyti hefir hún spilt skáldskaparsmekk manna; en samt hefir hún haft minni áhrif í þá átt en við mætti búast, því að íslenzk þjóð hefir ávalt átt líka greiðan aðgang að góðum skáldskap.

Blöð vor Vestur-Íslendinga hafa flutt mestu kynstur af mjög lélegri hagmælsku. Oft hefir verið fundið að því; en þau hafa lítið sint þeim aðfinnslum. Alt of mikið hefir verið ort og prentað. Þó ber ekki því að neita að margt gott, margt, sem ber á sér einhver skáldskapar einkenni, hefir flotið með. Auðvitað er hér ekki átt við skáldskap þeirra fáu íslenzku skálda hér vestan hafs, sem tvímælalaust eru góð skáld, hann tilheyrir öðrum flokki. Við lélegum skáldskap og einskir nýtri hagmælsku er engin bót til, nema sú, að smekkvísi og ást á fögrum skáldskap glæðist hjá þeim, sem lesa bæði það góða og það lélega. Við verðum að lesa verk beztu skáldanna til að læra að gera greinarmun á sannarlegum skáldskap og því sem ekki getur borið það nafn. Það er auðvelt. En til þess þarf þó meira en að lesa það, sem birtist í

blöðum og hlusta á það, sem flutt er við tækifæri, sem einhverjum finnast nógu mikilsverð til þess að ort sé við þau—til þess þarf að lesa mikið af kvæðum eftir góðskáldin. Og það er ekki nóg að lesa, heldur verður að lesa með skilningi ; lesa til þess að finna kraft og djúpsæi andans og fegurð búningsins, alt sem birtist í hinum bezta skáldskap.

---

## NÁTTÚRUFEGURÐ OG LIST.

Innanum ýmsar fornleifar frá dögum hellabúanna, sem bjuggu í Norðurálfunni löngu áður en pýramíðarnir á Egyptalandi voru bygðir, eða Babýlóníumenn byrjuðu að skrásetja markverða viðburði á leirtöflur sínar, hafa fundist afar viðvaningslega gerðar og grófar myndir krotaðar á bein. Þessar myndir eru elztu og ófullkomnustu tilraunir, sem menn þekkja. til að prýða hluti, Hellrabúarnir krotuðu þær í tómstundum sínum á áhöld sín og vopn. Myndirnar eru af dýrum, sem þeir veiddu og átu: hreindýrinu, hestinum og hinum risavaxna mammúð, sem er fyrir löngu lið-

inn undir lok. Þær eru klaufaleg eftirstæling þess sem stóð næst manninum í náttúrunni; en það voru dýrin, sem hann lifði á.

Enginn mundi kalla þessar myndir fagrar. Þær sýna varla ekkert af listfengi því og snild, sem listaverk síðari tíma bera vott um. Það sem við köllum fornöld, eða hin sögulega fornöld, er síðari tímar í samanburði við þau tímabil, er þessar leifar tilheyra. En þrátt fyrir ófullkomleika þeirra frá listarinnar sjónarmiði eru þær byrjun listarinnar, eða listin á lægsta stigi, sem menn þekkja. Þær sýna að fegurðartilfinningin, sem við nefnum svo, hefir verið vöknuð í sálum hellabúanna. Annars hefðu þeir ekki borið við að gera neinar tilraunir til að prýða áhöld sín. Ógurlega langir tímar hafa svo liðið og afar miklar en hægfara breytingar orðið á öllu lífi manna, þar til jafnvel hin þunglamalega list elztu söguþjóðanna, svo sem myndasmíði Fornegypta varð til. Á meðan mannkynið lifði í hálfgerðu og algerðu menningarleysi, meðan menn höfðu ekki varanlega bústaði og bygðu aðeins óvönduð og endingarlaus skýli yfir sig, gat listinni ekki farið fram. En eftir því sem þjóðirnar komust á hærri menningarstig voru fleiri tilraunir gerðar til að prýða bæði bústaði og áhöld. Og við þessar tilraunir glæddist bæði fegurðartilfinningin og snild

handanna, þar til maðurinn að lokum lærði að láta fegurðarhugsjónir sínar koma í ljós í hinum varanlegustu efnum, steini og málmi; og að láta hina fegurstu liti birta þær. Eftir tilraunir og þroska margra alda kemst listin á sitt hæsta stig, það stig að geta veitt auga og eyra ósegjanlegan fögnuð og lyft mannsandanum upp í hærri heim fegurðar og hugsjóna.

Þroskun listarinnar og fegurðartilfinningarinnar, sem er ekkert annað en hæfileiki mannssálarinnar til að sjá hið fagra í lögun hluta og litum, og heyra það í hljómum, hefir opnað augu manna æ betur og betur fyrir það fagra í náttúrunni. Villimennirnir, sem byrjuðu að krota myndir á bein, hafa eflaust haft sljóva meðvitund um fegurð náttúrunnar; hún hefir ekki hrifið þá. Samt voru hugir þeirra bundnir við náttúruna; allar sínar fyrirmyndir urðu þeir að fá þaðan. Og altaf, hversu hátt sem hún kemst, sækir listin fyrirmyndir til náttúrunnar. Munurinn er aðeins sá, að því meira sem andi mannsins þroskast því óháðari verður hann náttúrunni. Hann klæðir hugsanir, tilfinningar og vonir í gerfi listarinnar, jafnframt því sem hann tekur myndir og raddir náttúrunnar og gefur þeim annan búning í listinni. En listin verður aldrei skilin frá náttúrunni, því ef það er gert, verður hún ósönn og öfga-

full. Hin fegursta myndasmíð Forngrikkja var möguleg vegna þess að líkamir manna voru gerðir fagrir með íþróttum. Líkamsfegurð var eins eftirsóknarverð í augum þeirra og vitsmunir eða auður og há staða í þjóðfélaginu. Myndasmiðir þeirra virtu hina fegurstu og bezt vöxnu líkami íþróttarmannanna fyrir sér; og með þá í huga hjuggu þeir sínar óviðjafnanlegu marmaramyndir. Meistararnir, sem fundu upp gotneska kyrkjubyggingarstílinn á miðöldunum löguðu súlurnar og oddbogana eftir myndum úr hinum hávöxnu furuskógum. Íburðarstíllinn frakkneski á átjándu öld, sem var of ónáttúrlegur til þess að geta orðið varanlegur, átti að sýna náttúruna. Listin hefir ávalt stælt náttúruna. Náttúrufegurð hefir haft mjög mikil áhrif á þroska listanna. Forngrikkir bjuggu í fögru landi, þar sem allir drættir náttúrunnar voru skarpir og skýrir. Og það var einmitt eitt af aðaleinkennunum á listum þeirra. Listir annara þjóða hafa haft ýms önnur einkenni, sem sýnilega eru afleiðingar af áhrifum, sem náttúrufegurðin hefir haft á þær.

Ísland er fagurt land, það hefir fjölbreytta og víða stórkostlega náttúrufegurð. Sú náttúrufegurð er þess eðlis, að hún hefði getað haft áhrif á listir, ef önnur skilyrði hefðu verið til þess að þær gætu þrifist í landinu. Og hvort

sem Ísland eignast marga eða fáa listamenn í framtíðinni, má ætla að íslenzk náttúrufegurð hafi áhrif á þá, sem komi fram í verkum þeirra ; enda mun mega sjá þess merki nú þegar. En þó að hvorki hafi verið til myndhöggvara—eða málaralist á Íslandi hingað til, til að taka á móti áhrifum náttúrufegurðarinnar, eru áhrif hennar á fegurðartilfinningu þjóðarinnar sýnileg í þeirri einu list, sem enn hefir þroskast með þjóðinni—ljóðlistinni. Öll íslenzk skáld hafa verið undir áhrifum íslenzkrar náttúrufegurðar. Það er ekki aðeins að þau hafi ort um hið fagra og stórkostlega í íslenzkri náttúru, fjöllin, jöklana, fossana, hafið og ótal margt fleira, heldur er skáldskapur þeirra gegnsýrður af áhrifum frá náttúrufegurðinni. Þeirra verður vart víðar en í kvæðum, sem eru náttúrulýsingar. Mörg fegurstu kvæðin, sem til eru á íslensku máli lýsa einhverju í náttúru landsins ; og er í þeim sumum brugðið upp svo skýrum myndum að orðin lýsa jafnvel enn betur en litir í málverki því sem augað hefir séð. Tökum lýsingar eins og þessa :—

"Skein yfir landi sól á sumardegi
og silfurbláan Eyjafjalla tind
gullrauðum loga glæsti seint á degi.
Við austur gnæfir sú hin mikla mynd
hátt yfir sveit, og höfði björtu svalar
í himinblámans fagurtærri lind"—
eða—
"Sá ljómi og hátign loftsins mynda!

"Eitt logamálverk sjóa og vinda
í umgerð skýja.—Alt er rótt,
því andi náttúrunnar vinnur
og skraut í teikning skuggans spinnur
en skipar lofti að anda hljótt;
ber háskrúð sjálfra litsins linda
í ljósmyndina af degi og nótt."

Aðrar eins lýsingar og þessar eru aðeins mögulegar þar sem skáldin hafa drukkið inn í sig áhrifin af fegurð náttúrunnar.

Í þessum sex línum úr kvæði Jónasar "Gunnarshólmi" birtist alt hið eftirtektarverðasta, sem augað sér í einni svipan frá staðnum, sem er lýst í kvæðinu. Jökultindurinn með litunum, sem kvöldsólin verpur á hann, er hið stærsta og fegursta í útsýninni; augað staðnæmist fyrst við hann Hann er hin "mikla mynd", sem gnæfir upp í austri, hátt yfir bygðinni; svo hátt að hann teygir bjart höfuðið upp í himinblámann. Alt umhverfis þessa miklu mynd er smátt í samburði við hana; í henni er tign og fegurð, sem gera hana áhrifameiri en alt annað umhverfis. Og svo ljómi litanna. Sólin sveipar "silfurbláan" jökultindinn í "gullrauðum loga." Hvílíku óviðjafnanlegu litaskrauti er ekki lýst í þessum orðum! Undir er hinn mjúki silfurblái litur jökulsins, og yfir hann legst gullrauður logi eins og hjúpur. Orðin sjálf bregða upp mynd fyrir hugarsjónum manns sem er skýrari en nokkurt málverk. Hinn tindrandi, leikandi ljómi geislanna á jöklinum

er skýrari í þessum orðum en hann gæti verið í litum, þótt þeim væri blandað af snillings hönd

Í lýsingu Einars Benediktssonar af miðnætursólinni er litunum einnig lýst með aðdáanlegri snild. Loftið blasir við, eins geysistórt málverk. "Andi náttúrunnar" ber "háskrúð" allra lita í myndina. Skýin verða að umgerð utan um þetta "logamálverk sjóa og vinda." Sýninni er líkt við málverk. Augað nemur á svipstundu, litina, drættina, alt sem í sýninni felst. Svo rík er samlíkingin í huga skáldsins að náttúran sjálf verður í augum hans listamaðurinn, málarinn óviðjafnanlegi, sem blandar litunum og dregur myndina.

Báðar þessar lýsingar sýna næma fegurðartilfinningu og list á háu stigi. En það er sú list, sem er sköpuð með áhrifum náttúrunnar. Skáldin hafa auðgað anda sinn við uppsprettur hinnar dýrðlegu og hrikalegu íslenzku náttúrufegurðar. Þess vegna eru myndirnar í ljóðum þeirra svona skýrar og sannar. Þær eru ekki eftirstælingar, eins og ljósmyndin er nákvæm eftirstæling andlitsins ; þær eru listaverk, sem mannsandinn hefir framleitt undir hinum voldugu áhrifum náttúrunnar ; eins og gotnesku turnarnir eru listaverk, sem í fyrstu urðu til undir áhrifum hinna þögulu og leyndardómsfullu skóga.

Íslenzkur skáldskapur er auðugur af þessum myndum. Hvergi geta þeir, sem ekki hafa séð íslenzka náttúru, betur lært að þekkja hana en í þeim. Langar lýsingar í vanalegu máli jafnast ekki á við þær í því að gefa rétta hugmynd. Rétta hugmyndin fæst aðeins með því að sjá og skilja áhrif náttúrufegurðarinnar á þá sem eru næmastir fyrir henni. Eins og sagan verður ekki lærð með því að muna ártöl og mannanöfn, heldur með því að sjá rás viðburðanna í heilum dráttum, svo verður fegurð náttúrunnar ekki séð af nákvæmum lýsingum heldur af heilum myndum, sem hin sérstaka glöggskygni og fegurðartilfinning listamannsins hafa framleitt, hvort sem þær eru sýndar í litum eða orðum. Og listin gefur ekki aðeins hugmyndir, hún gefur þroska, auðgar andann. Við það að sjá áhrif náttúrufegurðarinnar í skáldskapnum opnast augun fyrir öllu, sem er fagurt í náttúrunni. Listin er sannmentandi. Og eitt hið þýðingarmesta í allri mentun mannsins er að sjá hið fagra í náttúrunni og mannlífinu og vera undir hinum upplyftandi áhrifum þess.

# KVONFANG OG RÉTTINDI KVENNA.

Síðan breytiþróunarkenningin ruddi sér til rúms í heimi vísindanna hafa menn lagt mikla stund á að rannsaka uppruna flestra stofnana mannfélagsins og breytingarnar sem þær hafa tekið gegnum aldirnar. Upphaf, vöxtur og hnignun stofnananna, í stuttu máli, öll saga þeirra hefir verið skoðuð á líkan hátt og saga hverrar lífstegundar. Í öllum slíkum rannsóknum er leitast við að byggja eingöngu á því, sem áreiðanlega er víst að hafi átt sér stað. Margar sögusagnir og hugmyndir, sem menn áður reiddu sig á, hafa mist alt sannleiksgildi ; en því meira er bygt á öllum siðum og lífsháttum, sem enn eru við lýði, eða sem leifar finnast af í sambandi við þær stofnanir, sem eru rannsóknarefni.

Fjölskyldan er, eins og gefur að skilja, elzta félagslega stofnunin, sem til er í heiminum. Í rauninni er hún ekki félagsstofnun í sama skilningi og þær sem

myndast hafa af fjálsum s[illegible]tökum manna; því að hún er að n[illegible] leyti afleiðing af óumflýjanlegri nauðsyn. Fjölskyldan hefir í fyrstu myndast vegna þess að móðirin varð að annast afkæmi sitt, meðan það var ósjálfbjarga. En þar sem að allar aðrar félagsstofnanir eiga rætur sínar að rekja til fjölskyldulífsins er sjálfsagt að telja fjölskylduna hina fyrstu félagsstofnun, eða frumstofnun mannkynsins. Hún er undirstaðan undir öllu félagsbundnu lífi. Það er þetta sem gerir hana að svo afar mikilsverðu og merkilegu rannsóknaratriði frá vísindalegu sjónarmiði. En auk þess er öll rannsókn, sem snertir sögu fjölskyldulífsins, mjög mikilsverð fyrir eina af sterkustu hreyfingum nútímans, sem stöðugt breiðist meira og meira út í öllum mentuðum löndum. Þessi hreyfing er kvenfrelsishreyfingin. Réttur skilningur á henni getur naumast átt sér stað nema þar sem að einhver þekking á fjölskyldulífi liðinna tíma er fyrir.

Engum manni hefi tekist að komast fyrir uppruna fjölskyldulífsins, sem ekki er heldur að vænta, þar sem svo mikill hluti af bernsku mannkynsins er næstum eða alveg myrkri hulinn. En rannsóknir á lífsháttum viltra og hálfsiðaðra þjóða og elztu sagnir söguþjóðanna eru efni, sem félagsfræðingarnir hafa reynt að vinna úr tilgátur og ályktanir um fjöl-

skyldulífið frá byrjun og breytingar þær sem á því hafi orðið. Árangurinn af þessu starfi félagsfræðinganna er sá að menn hafa komist að ýmsum sennilegum niðurstöðum, sem eru alment viðteknar.

Nokkrir fræðimenn hafa haldið því fram að upprunalega hafi ekkert hjónaband átt sér stað. Sá hét Bachofen, svissneskur maður, sem fyrstur hélt þessari skoðun fram. Eitt af því sem Bachofen benti á kenningu sinni til sönnunar var það að meðal ýmsra svertingjaþjóðflokka í Afríku og Ástralíu tíðkaðist hópa-kvonfang, sem svo mætti nefna. Þetta kvonfangs fyrirkomulag er þannig, að nokkrir menn eru giftir jafnmörgum konum, en innan hópsins virðast engar reglur vera fyrir því hverjum hver kona tilheyri. Þetta fyrirkomulag tíðkast meðal ýmsra flakkandi villimannaflokka, sem standa mjög lágt í menningarlegu tilliti. Bachofen sagði, að það væri leifar frá elztu tíð mannkynsins, Þá hefði ekkert hjónaband í neinni mynd verið til. En svo hefði það smám saman komist á alstaðar nema meðal þessara lægstu mannflokka, sem ennþá lifðu í hinu upprunalega ástandi, þó með þeirri breytingu að í stað algers hjónabandsleysis hefði hópa-kvonfangið komist á hjá þeim. Önnur skoðun, sem Bachofen og fylgjendur hans héldu fram, og sem í ra[illegible]ni er bein afleiðing af hinni fyrri, var sú, að

mannkynið hefði upprunalega verið undir móðurstjórn. Ættin var rakin í kvenlegg og börn voru ávalt undir stjórn mæðra sinna en ekki feðra. Sönnun fyrir þessu þóttust þeir einnig finna meðal ýmsra villimannaflokka nútímans, sem hafa móðurréttinn, það er að segja, rétt móðurinnar yfir börnum sínum, á all háu stigi. Móðurstjórnin sögðu þeir að hefði hlotið að hverfa úr sögunni um leið og það fyrirkomulag komst á að ein eða fleiri konur giftust einum manni. Því þá færðist valdið yfir börnunum yfir í hendur föðurins. Þessum kenningum hefir verið mótmælt af mörgum fræðimönnum, og má sérstaklega nefna Westermarck, háskólakennara á Englandi, sem hefir rannsakað mjög vel alt sem lýtur að kvonfangi og fjölskyldulífi. Hann heldur því fram, að alveg reglulaus sambúð karla og kvenna finnist hvergi og að hópakvonfangið sé í rauninni ekki leifar frá eldra ástandi, heldur stafi af ýmsum orsökum, sem finna megi í lífskjörum villimannaflokkanna sjálfra. Einnig segir hann að móðurréttur sá, sem nú finnist meðal ýmsra villiþjóða, sé alt annað en móðurstjórn. Það er skoðun Westermarcks að einhverjar reglur hafi ávalt verið til viðvíkjandi sambúð karla og kvenna, eða með öðrum orðum, hjónaband í einhverri mynd; og einnig, að valdið yfir fjölskyldunni hafi ávalt verið

í höndum föðurins. Eitt af því sem Westermarck byggir skoðun sína um að hjónabandið sé jafngamalt mannkyninu á er það, að ótakmörkuð sambúð gæti ekki hafa átt sér stað vegna ábrýði karlmannanna. Samt eru ekki allir félagsfræðingar samdóma Westermarck í þessu. Segja sumir þeirra, að ýmsir siðir, svo sem hópa-kvonföngin og fleirmennið, sem síðar verður minst á, hafi ekki getað myndast út frá reglubundnu hjúskaparlífi. Þeir benda einnig á að ýmsar sögur í ritum sumra fornþjóða virðist bera vott um hið sama, eins og t.d. hin vel þekta saga frá Forn-Indverjum um bræðurna fimm,sem gengu að eiga hina fögru Draaupadi, er hafði augu eins blá og lótusblóm. En eins og gefur að skilja eru allar skoðanir viðvíkjandi uppruna hjónabandsins aðeins tilgátur, sem mjög er erfitt að sanna.

Þrjár tegundir hjónabands eru til að undanteknum hópa-giftingunum, sem á hefir verið minst : fleirmenni, fleirkvæni og einkvæni. Fleirmenni er það kallað, þegar ein kona er gift fleiri en einum manni. Það finst á nokkrum stöðum meðal lægri villimannaflokka, en hvergi er það mjög útbreitt. Stundum eru mennirnir, sem eiga sömu konuna, allir bræður Þannig er fleirmennisfyrirkomulag það, sem kent er við Tíbet í Asíu. En stundum eru, aftur á móti,

mennirnir óskyldir. Það er skoðun manna að fleirmenni sé afleiðing fátæktar og langvarandi erfiðleika á að afla lífsviðurværis, sem hefir í för með sér fækkun kvenkynsins. Það er kunnugt að þegar hallæri á sér stað meðal villimanna, fækkar kvenfólki fyr en karlmönnum.

Fleirkvæni er það, þegar fleiri en ein kona eru giftar einum manni. Fleirkvænið er með tvennum hætti. Stundum er aðeins fyrsta konan gift manninum, en hinar eru hjákonur ; og hefir þá fyrsta konan venjulega töluvert vald yfir þeim. Stundum eru allar konurnar giftar manninum og eru þá allar jafn rétthäar, Fleirkvænið hefir verið afar útbreitt, og vottur þess finst meðal flestra fornþjóða. Það helzt ennþá við, eins og kunnugt er, meðal Múhameðstrúarmanna. Þó að í rauninni meiri hluti Múhameðstrúarmanna séu einkvænismenn, því aðeins hinir ríkari hafa fleiri en eina konu.

Einkvænið er gifting eins manns og einnar konu, sem vanalega er ætlast til að vari meðan bæði lifa, nema einhverjar lagalega viðurkendar orsakir olli skilnaði. Meðal vestrænu þjóðanna er einkvænið hið eina hjúskaparfyrirkomulag, sem er leyft með lögum. Flestar Austurlandaþjóðir eru og að mestu leyti einkvænisþjóðir, jafnvel þó að fjölkvæni sé leyfilegt. Meðal margra villiþjóða

tíðkast einkvæni eingöngu. Hjá hinum betur upplýstu þjóðum leyfir almenn siðferðismeðvitund aðeins einkvæni, en meðal villimanna ráða eflaust hagsmunalegar ástæður mestu.

Allar þjóðir, sem standa á mjög lágu menningarstigi lifa í smáflokkum. Það er fullsannað, að þess konar flokkaskifting hefir átt sér stað um allan heim. Vanalega er gerð grein fyrir henni á þann hátt, að fyrst meðan samlífið var engum reglum bundið, hafi rísið upp ættbálkar af einstökum fjölskyldum, sem svo klofnuðu í sundur, þegar þeir voru orðnir of stórir til þess að þeir gætu þægilega haldist saman. Þess ber að gæta, að á því stigi er menn lifa mestmegnis af veiðum og þurfa að flytja sig úr einum stað í annan, eru stórir flokkar óþægilegir. Hver þessara flokka varð þá heild út af fyrir sig, sem hafði sínar venjur og siði, eftir því sem bezt átti við fyrir hann. En oft gat farið svo, að hagur væri fyrir tvo eða fleiri flokka að slá sér saman, annaðhvort til sóknar og varnar í ófriði við aðra flokka, eða þá til þess að setjast að saman þar sem nóg var landrými. Á þann hátt mynduðust svo stærri flokkar, sem svo urðu að þjóðum við það að vaxa og blandast saman við aðra. Náttúrlega hafa margar breytingar og útafbrigði frá þessu átt sér stað, en í aðalatriðunum hefir framþróun félagslífsins verið eitt-

hvað á þennan hátt í byrjun, samkvæmt því sem rannsóknir í þeim efnum hafa leitt í ljós.

Ýmsar mjög strangar reglur um kvonfang hafa fundist hjá villimönnum í sambandi við þessa flokkaskiftingu. Hver ættflokkur er einkendur með ættarmerki (totem). Ættarmerkið er vanalega eitt hvert dýr, úlfur, örn o. s. frv. Ættarmerkið sameinar flokkinn, þó að þeir sem honum tilheyra séu oft mjög fjarskyldir, og jafnvel sumir komnir inn í hann úr öðrum flokkum. Enginn, sem flokknum tilheyrir má drepa ættarmerkið, þannig má enginn, sem hefir úlf fyrir ættarmerki, drepa úlf. Úlfurinn er heilagt dýr fyrir hans flokk ; og því er trúað, að ef einhver úr flokknum drepi hann, þá leiði það ógæfu yfir flokkinn. Nú er það siður hjá sumum villimannaflokkum að karlmaður og kvenmaður, sem hafa sama ættarmerkið, mega ekki giftast saman ; en aftur hjá öðrum giftast karlmenn eingöngu konum, sem hafa sama ættarmerki og þeir. Meðal Ameríku Indíana voru giftingar innan flokkanna stranglega bannaðar, og þeirri reglu er einnig fylgt meðal svertingjanna í Afríku og Astralíu yfirleitt. Ekki vita menn hvers vegna þessu fyrirkomulagi er svo stranglega fylgt, en það er ætlum sumra fræðimanna, að meðal þeirra flokka sem banna innbyrðis giftingar, hafi úrættunin, sem stafaði af

of nánum skyldmennagiftingum, verið orsök til þess. Aftur á móti gæti verið, að þar sem innbyrðis giftingar tíðkast eingöngu, væri tilgangurinn með þeim sá að forðast samblöndun við aðra flokka. Einnig koma trúarhugmyndir hér til greina, því ættarmerkið er skoðað sem bústaður hærri kraftar, sem verndar flokkinn ; og að yfirgefa það er sama og að afneita verndarkraftinum.

Fjölskyldulíf fornþjóða þeirra, er hafa eftirskilið heiminum sögu sína, var á miklu hærra stigi en það sem finst meðal villiþjóða nú á tímum. Þær þjóðir höfðu margar mikla menningu, þó að hún að miklu leyti væri ólík menningu nútímans. Það sem einkum einkennir fjölskyldulíf þeirra er vald fjölskylduföðurins yfir konu og börnum. Konan var í raun og veru ávalt eign einhvers, fyrst föður síns, síðan manns síns, og síðast erfingja hans, ef hann dó á undan henni. Samt sem áður eru konum áskilin ýms réttindi í lögum margra fornþjóða. Þannig er til dæmis tekið fram nákvæmlega í lögum Hammúrabis konungs í Babýlon, sem var uppi um 2000 árum fyrir fæðing Krists, hversu mikið vald maður skuli hafa yfir konu sinni og börnum. Hann gat rekið hana frá sér fyrir mjög litlar eða engar sakir. En ef kona hljóp burt frá manni sínum mátti hann refsa henni harðlega. Maðurinn

var skyldugur til að sjá konu sinni fyrir lífsviðurværi, ef hún á engan hátt fyrirgerði rétti sínum. Fjölskyldulífið var takmarkað fleirkvæni; en oft hafði fyrsta konan all-mikil réttindi fram yfir hinar. Einnig er ákveðið í lögunum, hvaða réttinda ógiftar konur skuli njóta í þjóðfélaginu og hvaða atvinnugreinar þær megi stunda. Þau réttindi voru svo mikil að furðu sætir, þegar þess er gætt, hversu gömul lögin eru. En mjög strangar eru allar refsingar. Og það, að maðurinn má refsa konunni án dóms og laga, sýnir að hugmyndin, sem til grundvallar liggur er sú að gift kona sé eign manns síns. Hjá Egyptum til forna var réttur konunnar svo hár að hún gat jafnvel komið í veg fyrir, að maður sá, sem hún giftist tæki sér aðra konu ; og fleirkvæni átti sér aðeins stað meðal hinna ríkari. Á Indlandi var konan skoðuð sem eign manns síns ; en mönnum var boðið að fara vel með konur sínar. Menn máttu reka þær frá sér fyrir margar ástæður ; en þó urðu þeir, ef ástæðan var sjúkdómur að fá samþykki þeirra til þess. Kona gat ekki gifst öðrum eftir dauða manns síns. Sá hroðalegi siður, að taka ekkjur af lífi, var aldrei almennur. Meðal Kínverja til forna, og alt fram að síðustu tímum, hafði konan mjög lítil réttindi. Einkvæni hefir tíðkast þar í orði kveðnu, en mjög algengt hefir ver-

ið að menn hefðu fleiri eða færri hjákonur. Vald himilisföðurins yfir fjölskyldu sinni hefir verið næstum ótakmarkað. Hann gat refsað konunni fyrir hvert smáafbrot og jafnvel tekið hana af lífi án dóms og laga, ef hún var honum ótrú. Einnig gat hann rekið hana frá sér fyrir litlar eða engar sakir.

Samkvæmt elztu frásögnum Hebrea, voru konur seldar. Sagan af Jakob og Rakel sýnir það. Í Móse lögum er fleirkvæni ekki leyft. Skilnaður er aðeins í höndum mannsins ; og skilnaðarsakirnar eru fremur óákveðnar. Einkennilegum sið er lýst í Rutarbók, sem sýnir, að konan fylgdi upprunalega öðrum eignum mannsins til erfingja hans. Siðurinn var sá, að nánasti ættingi giftist ekkju látins manns. Á hið sama bendir og bón Adonía til Salómons bróður síns, að hann fái síðustu konu Davíðs föður þeirra. Salómon neitaði honum um það vegna þess að hann óttaðist að á eftir kæmi krafa um að hann léti ríkið af hendi við Adónía, sem í rauninni átti meira tilkall til þess en Salómon, þó að Davíð fengi honum það í hendur.

Menning Grikkja og Rómverja komst, eins og kunnugt er, á hærra stig en menning nokkurra annara fornþjóða, enda sést þess ljós vottur í kjörum kvenna hjá þeim. Svo er að sjá sem konur hafi notið all-mikils sjálfræðis hjá

Grikkjum á Hómers tímabilinu (1000—700 f. K.). Einkvæni var alment, en þó var mönnum leyfilegt að hafa fleiri konur en eina. Maðurinn hafði all-mikið vald yfir konu sinni, börnum og þrælum; hann mætti fyrir þeirra hönd fyrir dómstólunum. Á heimilunum stunduðu konur mjög handaiðnað; og virðist sem að þær hafi ráðið mestu um hússtjórnina. Áhrif þeirra utan heimilisins voru lítil eða engin; þó höfðu einstakar konur allmikil áhrif óbeinlínis á opinber málefni. Dætur áttu ekki tilkall til arfs eftir feður sína og höfðu að öllu leyti minna frjálsræði en bræður þeirra. Síðar á tímum fara rithöfundar og heimspekingar, svo sem Plató og fleiri, að viðurkenna meiri réttindi fyrir konur. Með Rómverjum var vald föðurins yfir fjölskyldunni á mjög háu stigi. Upphaflega tíðkuðust þrenns konar giftingaraðferðir, og samkvæmt þeim öllum fékk maðurinn full yfirráð yfir konunni. Síðar lögðust þær allar niður og giftingin varð að lagalegum samningi milli mannsins og konunnar, sem hafði fult gildi, þó að engum sérstökum siðum væri fylgt. Þó var samþykki föður eða forráðamanns brúðurinnar ávalt nauðsynlegt til þess að giftingin væri lögleg. Með hinum eldri giftingarsiðum féll niður sú skoðun, að konan væri manninum í öllu undirgefin. Samt var hún frá lagalegu sjónarmiði eign manns-

ins ; en sú venja komst á, að ef maður bjó ekki með konu sinni um ákveðinn tíma, hætti hún að vera eign hans. Undir því fyrirkomulagi urðu hjónaskilnaðir mjög tíðir á síðari árum keisararíkisins. Fleirkvæni átti sér ekki stað meðal Rómverja.

Sagnaritarar Rómverja hrósuðu Germönum hinum fornu mjög fyrir það, hversu mikillar virðingar konur nutu hjá þeim. Fleirkvæni tíðkaðist aðeins meðal höfðingja. Konan var seld eða gefin í hjónaband, og var því í raun og veru ávalt eign einhvers karlmanns. En að konan hafi notið all-mikils sjálfræðis hjá germönsku þjóðunum, að minsta kosti hjá Norðurlandabúum, sýna fornsögur okkar Islendinga tvímælalaust. Að vísu má búast við að margt hafi verið breytt orðið á víkingaöldinni frá því sem var fyr á tímum, meðan Norðurlandabúa er hvergi getið. En þó hafa allir siðir og hættir fjölskyldulífsins þurft langan tíma til að myndast.

Kristin trú hafði snemma áhrif á kvonfang og fjölskyldulíf. Reyndar höfðu trúarbragðalegir siðir átt sér stað í sambandi við giftingar frá alda öðli. Westermarck segir, að það sé náttúrlegt að jafn mikilsverð athöfn og gifting hafi verið sett í samband við trúarbrögðin um allan heim, því ekkert sé eins ríkt í huga villimannsins og það að ná hylli

guðanna í hvert sinn sem hann framkvæmir einhverja mikilvæga athöfn. Fórnfæringar og ýmsir aðrir trúarbragðalegir siðir hafa því verið um hönd hafðir við giftingar frá elztu tímum.

Kristna kyrkjan byrjaði strax á fyrstu öld að hafa afskifti af giftingum. Giftingin var þá skoðuð í rómverska ríkinu sem lagalegur samningur; trúarsiðirnir, sem upphaflega höfðu verið um hönd hafðir í sambandi við eina giftingaraðferðina af þremur, sem minst hefir verið á, voru þá lagðir niður. Fyrstu giftingarsiðir kyrkjunnar voru fólgnir í því að einhver, sem hafði prestlega þjónustu á hendi í kyrkjunni, blessaði yfir brúðhjónin eftir að hin lagalega giftingarathöfn hafði farið fram. Það var gert í heimahúsum og þannig hélzt það fram á fjórðu öld, þá var farið að framkvæma þessa blessunar-athöfn í kyrkjunum. Varð hún þá lengri og tilkomumeiri. Frá því á fjórðu öld og fram á þrettándu var kyrkjan smám saman að ná valdi yfir giftingarathöfninni; og loksins varð hjónavíxlan algerlega kyrkjuleg athöfn, sem var ógild nema hún færi fram í kyrkju og væri framkvæmd af presti. Kyrkjan gerði hjónavíxluna að sakramenti. Þó ákvað kyrkjan ekki verulega fyr en á miðri sextándu öld, að gifting væri ógild nema hún væri framkvæmd samkvæmt siðum hennar. Kyrkjan setti

mjög strangar reglur um það hverjir mættu giftast vegna skyldleika. Gerði hún fjölda margar giftingar ógildar, sem enginn vissi neina meinbugi á. Náðu biskuparnir sér oft niðri á mótstöðumönnum sínum með því að grafa upp slíka meinbugi á hjónaböndum þeirra og draga þá síðan fyrir lög og dóm kyrkjunnar. Var það oft auðvelt; og er jafnvel sagt að í sumum héruðum hafi fá hjónabönd verið alveg rétt frá sjónarmiði kyrkjunnar. En enginn kærði sig um það og því var ekki hreyft nema einhver biskup þyrfti á því að halda við málaferli.

Öllum ber saman um, að hagur konunar hafi breyzt mikið til batnaðar með yfirráðum kyrkjunnar. Konan fékk frelsi til að velja sér mann; og hjónaband sem einu sinni hafði verið stofnað var skoðað óraskanlegt. Það hafði þær afleiðingar, að vald föðurins yfir dótturinni hvarf smám saman, en lengi hafði þó maðurinn sama vald yfir konu sinni og verið hafði áður. Öll meðferð á konum varð mannúðlegri og yfirleitt komst á meiri jöfnuður milli karla og kvenna. Fyrst framan af hafði kyrkjan mikil siðbætandi og upplýsandi áhrif á fjölskyldulífið, enda var Rómverjum orðið mjög ábótavant í því; en á miðöldunum komst siðferðið á mjög lágt stig víða, og voru ýmsar orsakir til þess. Með siðbótinni á sextándu öld breyttist afstaða

kyrkjunnar að nokkru leyti. Mótmælenda kyrkjurnar leyfðu prestum sínum að giftast. Einnig sleptu þær sakramentis kenningunni á hjónavíxlunni og leyfðu hjónaskilnað fyrir vissar sakir.

Allur hagur konunnar hefir eðlilega staðið í mjög nánu sambandi við þau réttindi, sem hún hefir notið í hjónabandinu. Til skamms tíma var ekkert annað starfssvið opið fyrir konuna en starfssvið heimilisins. Margir meðmælendur kvenréttinda gera mikið úr ófrelsi konunnar áður en hún átti kost á að stunda atvinnugreinar þær, sem henni standa nú opnar, og líta svo á að konan hafi alt af verið undirokuð og svift þeim réttindum, sem hún átti tilkall til. Að vissu leyti er þetta rétt, en þó ekki að öllu leyti.

Konan var undirokuð, en hún var ekki svift neinum réttindum, því hún hafði aldrei haft þau. Aðalástæðan til þess að konan fékk upprunalega minni réttindi en maðurinn er sú, að hún gat ekki tekið þátt í öllum störfum sem að hann vann. Hjá villimönnum, sem lifa eingöngu af veiðum, er það algengt að konurnar vinni öll erfiðustu og verstu verk, en að karlmenn geri ekki neitt á milli þess að þeir eru á veiðum. Þó að undarlegt megi virðast er þetta náttúrlegt. Bjargræðisvegurinn krefst þess að karlmaðurinn sé óbundinn og ávalt reiðubúinn til að fara á veiðar. Þess vegna

verður það konunnar hlutverk að hagnýta veiðina og jafnvel að byggja skýlið, eða gera hvert annað verk, sem hið óbrotna villimannalíf krefur. Hún getur ekki aflað fæðunnar, og verður þess vegna að vinna önnur verk, sem oft eru miklu erfiðari. Ennþá óhjákvæmilegri verður slík verkaskifting, þegar hernaður kemur til sögunnar. Þá verður karlmaðurinn að vera viðbúinn að verja líf sitt og sinna, og þess vegna er oft lífsnauðsyn að hann sé tímum saman alveg laus við öll önnur störf, jafnvel það líka að afla fæðu. Konan verður þá að taka við því starfi. Og þegar þess er gætt, hversu mikið af öllu valdi á lægri stigum menningarinnar lendir óhjákvæmilega í höndum þeirra, sem geta barist,er engin furða þó að réttindi konunnar séu bæði fá og smá. Sigurvegararnir eru hinir einu stjórnendur, og þar sem konan tekur ekki þátt í hernaði, verður öll stjórn í höndum karlkynsins,og konan fer ekki aðeins á mis við það að stjórna, heldur og réttindin, sem þeir fá, er hafa möguleikana til þess að hafa valdið í sínum höndum ; en það eru ekki aðeins þeir, sem í raun og veru hafa stjórn á hendi, heldur þeir sem geta barist.

Meðan konan á við þessi kjör að búa er hún manninum undirgefin, það er að segja hver kona þeim manni, sem hún er gift. Hún er í rauninni eign hans og

hann getur farið með hana eftir vild. Að svo hafi verið um allan heim sést bezt af hinum mjög almenna sið að ræna konum og kaupa konur. Bæði orðin brúðhlaup og brúðkaup í íslenzku máli benda á hann. Einnig er heimanmundurinn og aðrar fégjafir mjög algengar í sambandi við giftingar víðsvegar um heiminn bæði fyr og síðar. En það er alt talið að vera leifar endurgjalds, sem upprunalega var borgað fyrir konuna, þó að sú breyting yrði á með heimanmundinn, að farið var að borga hann með konunni. Veruleg breyting á högum konunnar verður því ekki fyr en hætt er að skoða hana frá lagalegu sjónarmiði sem eign mannsins. Þá fyrst fær hún nokkur veruleg réttindi, jafnvel þau að geta valið sér mann sjálf. Hjá sumum fornþjóðunum var konan búin að fá þessi réttindi að nokkru leyti; og með vaxandi mannúð í siðum og lífsskoðunum hlaut hagur hennar að fara batnandi, enda má sjá stöðuga framför í því efni alla leið niður gegnum miðaldirnar.

Langmestar breytingar hafa orðið á högum konunnar á síðastliðinni öld, og stafa þær af hinum miklu byltingum í öllum iðnaði, sem hafa orðið á síðari tímum. Nýir vegir hafa opnast fyrir konur til að verða sjálfbjarga og sjálfum sér ráðandi, sem ekki þektust áður. Og með þeim hefir komið nauðsynin til ment-

unar og margs annars, sem var ekki nauðsynlegt áður. Þátt-taka konunnar í iðnaðar-framleiðslu í stórum mæli utan heimilisins hefir farið vaxandi vegna þess að það hefir verið hagsmunalegur ávinningur. En um þátt-töku í mörgum hærri og vandasamari stöðum, sem karlmenn voru áður eingöngu í, hefir konum verið neitað; og oft hefir hún ekki fengist fyr en eftir ítrekaðar bænir og baráttu. Sama hefir verið með hærri mentun. Nú er þó svo komið að konur geta tekið þátt í flestum störfum hjá menningarþjóðunum og geta notið mentunar að mestu leyti til jafns við karlmenn. Mörg störf eru þannig að þau verða aldrei stunduð af konum alment; og hversu mörgum atvinnugreinum, sem konur eiga aðgang að, er mjög ólíklegt að aðalstarf konunnar yfirleitt breytist til muna. Hennar sérstaka starfssvið hlýtur ávalt að verða heimilið og fjölskyldulífið.

En frelsi kvenna er ekki fólgið í breytingum í störfum þeirra, þó að það séu óneitanlega aukin réttindi að eiga aðgang að sem flestum stöðum og störfum í mannfélaginu. Frelsi kvenna er í því fólgið að þær fái atkvæðisréttinn. Atkvæðisrétturinn er merki fullra borgaralegra réttinda og hins mesta frelsis, sem hvert þjóðfélag veitir meðlimum sínum. Meðan konur hafa hann ekki skortir þær það frelsi sem karlmenn hafa, og sem

þær eiga heimtingu á samkvæmt meginstefnu stjórnarfyrirkomulags nútímans, sem er sú, að þeir sem landslögunum eiga að hlýða geti átt einhvern þátt í myndun þeirri, eða geti ráðið einhverju um, hvernig þau eru. Frelsiskrafa kvenna hlýtur að verða um atkvæðisréttinn, heilan og óskertan, eins og hann er gefinn hverjum karlmanni, sem ber fulla ábyrgið verka sinna. Alt annað er aðeins aukaatriði. Kjarni kvenfrelsismálsins er krafan um almennan kosningarrétt fyrir konur jafnt sem karlmenn.

Algerður misskilningur er það, að atkvæðisrétturinn sé eitthvað, sem konur hafi alt af átt, en sem hafi verið haldið fyrir þeim og þær ekki fengið að njóta. Það er skamt síðan atkvæðisrétturinn varð fyrst til í heiminum; og það hefði verið þveröfugt við sögu allra réttarbóta, sem nokkurn tíma hafa komist á, ef konur hefðu fengið atkvæðisréttinn án þess að krefjast hans. Og það er að mestu leyti á valdi þeirra sjálfra hversu fljótt þær fá hann. Engir löggjafar og engin þjóð geta til lengdar neitað konum um atkvæðisréttinn, ef þær krefjast hans alment. Þær konur, sem eru á móti kvenfrelsismálinu vinna því langt um meira ógagn en karlmennirnir, sem eru því andstæðir. En í þessu máli, sem svo mörgum öðrum þarf fólk að læra, —og sumir þurfa eflaust langan tíma til að læra

það,—að allar stórar breytingar í hugsunarhætti og skoðunum á skipulagi þjóðlífsins hljóta að leiða til breytinga í lögum og lífsháttum. Krafan um full réttindi fyrir konur er ekki gömul. Og þegar þess er gætt, hversu tregur til stórbreytinga mikill hluti manna ávalt er, má segja að mikið hafi unnist í kvenfrelsismálinu á skömmum tíma.

---

## SKYNVILLUR OG DRAUMAR.

Við höfum öll heyrt talað um fimm skilningarvit: sjón, heyrn, ilman, smekk og tilfinningu. Orðið skilningarvit er í rauninni rangnefni. Því þessi svo nefndu skilningarvit eru alt annað en skilningur og hugsun. Skilningarvitin eru verkfærin, sem við skynjum hlutina með. En það að skynja einhvern hlut er að verða hans var, vita að hann er til. Ennfremur er rangt að telja skynfærin aðeins fimm. Það sem er nefnt tilfinning er margbrotin skynjun. Tilfinningin, sem maður hefir, þegar maður kreppir hendina utan um eitthvað er mjög ólík tilfinningunni, sem maður hefir, þegar

maður stingur sig á nál í hendina; kuldatilfinning er gagnólík hitatilfinningu; og ennþá annarar tegundar er tilfinning sú, sem maður hefir í vöðvum og liðamótum handleggsins, þegar maður lyftir einhverju þungu. Sálarfræðingunum ber ekki saman um það, hversu margar tegundir skynjunar heilbrigður maður geti greint sundur, en þeir eru sammála um að þær séu fleiri en þessar fimm gömlu, sem hafa upptök sín í ólíkum skynfærum.

Þegar endar tilfinningatauganna, sem svo eru nefndar, verða fyrir ertingu, hvort sem það er af því að hljóðalda skellur á hljóðhimnu eyrans, eða dropi af einhverju beisku er látinn á tunguna, eða af einhverri annari ytri snertingu hluta við líkamann, þá berast áhrif inn til heilans. Taugarnar eru tvens konar: tilfinningataugar, sem bera öll utanaðkomandi áhrif inn til heilans, og hreyfitaugar, sem ráða hreyfingum vöðvanna í líkamanum. Allar taugar liggja út frá heilanum og mænunni. Oft berast áhrifin, sem tilfinningataugar verða fyrir, aðeins til mænunnar, þau þurfa ekki að fara lengra til þess að verða að tilætluðum notum, því að þar eru stöðvar, sem geta tekið á móti áhrifunum, og sent með hreyfitaugunum nauðsynleg skeyti til ýmsra líffæra í líkamanum. Þegar ytri áhrifin ná ekki lengra en til mænunnar,

er allur áhrifastraumurinn óafvitandi og getur ekki kallast skynjun. Langflestar taugar liggja fyrst inn til mænunnar og svo í henni upp til heilans; taugar skynfæranna, sem hafa aðsetur sitt í höfðinu, liggja beint inn í heilann. Heilinn sjálfur skiftist í þrjá aðalhluta: lægri heilann, í honum eru ýmsar taugamiðstöðvar, sem ósjálfráðar hreyfingar í líkamanum stjórnast frá; innri heilann, í honum eru sams konar taugamiðstöðvar, en vafasamt er hvort starfsemi þeirra fylgir nokkur meðvitund; og heilahelmingana tvo, sem liggja að framan og ofan í höfðinu. Í sambandi við taugamiðstöðvarnar í heilahelmingunum standa allar sjálfráðar hreyfingar; þar fer einnig fram öll hugsun, í stuttu máli alt, sem hjá manninum er kallað sálarlíf. Allir þessir hlutar heilans eru margvíslega tengdir saman með taugaþráðum, sem liggja afar þétt um þá, fram og aftur. Hér er óþarft að fara lengra út í það. Mjög nákvæmar rannsóknir hafa leitt í ljós, hvar í heilanum aðsetursstöðvar skynjananna og [illegible]gra líkamlegra hreyfinga eru.

Til þess að skynjun geti átt sér stað verða áhrifin, sem taugaendarnir verða fyrir, að berast alla leið til annarshvors heilahelmingsins. Öll áhrif, sem koma með taugum frá vinstri helmingi líkamans berast til hægri heilahelmingsins,

og eins berast taugaáhrifin frá hægri helmingi líkamans til vinstri heilaheimingsins. Þessi áhrif ætla menn að séu fólgin í einhvers konar breytingum í efninu, sem er í taugunum og heilanum. Það er kunnugt að þetta efni er ákaflega viðkvæmt og fljótt að hreyfast. Augað og eyrað hafa mest verið rannsökuð af öllum skynfærum. Augað er, í stuttu máli, mjög margbrotin vél, sem hefir það hlutverk að kasta mynd af hlutum, sem ljós fellur á, á nethimnuna sem er aftast í því. Í nethimnunni greinist sjóntaugin sundur í marga enda. Ljósið veldur, að menn ætla, efnabreytingum í þessum endum, sem svo berast einhvern veginn með sjóntauginni á vissan stað í heilanum, sem má nefna sjónarstöðina. Ekki vita menn hvað fer fram í heilanum, þegar áhrif ljóssins berast þangað, en það vita menn með vissu að sé sjónarstöðin eða sjóntaugin ekki í góðu lagi, á engin sjón sér stað. Margt fleira í sambandi við sjónina er ráðgáta, svo sem það t. d. hvers vegna við sjáum mismunandi liti. Venjulega hugsum við okkur að litirnir séu í hlutunum, sem við sjáum, en í raun og veru eru þeir ekki þar heldur í augunum. Hin ytri orsök litanna eru mismunandi langar sveiflur í ljósvakanum, sem menn ætla að fylli alt rúm sé á milli ódeilanna í öllu efni. Eftir því hvort þe-

sveiflur eru langar eða stuttar verða mismunandi breytingar í trumlum nethimnunnar og heilans, sem valda því að við sjáum mismunandi liti. Það er talið að 450 biljónir [illegible] svaka[illegible] hverri mínútu valdi [illegible] 750 biljónir fjólubláum. En [illegible] ómögulegt að fara lengra h[illegible]

Eyrað er verkfæri til [illegible] á móti hljóði á sama hátt og augað er verkfæri til að taka á móti ljósi. Hljóðið myndast við það að einhver hlutur, t. d. s[illegible]ngur [illegible] loftið umhverfis sig [illegible] loftöldurnar skella á himnu í eyranu, sem er kölluð hljóðhimna, og frá henni berst hreyfingin inn gegnum innra eyrað til heyrnartaugarinnar, sem [illegible] í vissan blett í heilanum. Hey[illegible] [illegible] heilanum, heyrnartaugin o[illegible] að s[illegible]tt verða að vera heilbrigð t[illegible] að okkur heyrn geti átt [illegible] stað. Þegar hjóðöldurnar eru óreglulegar, eins og t. d. þær, sem orsakast af því að vagni er ekið eftir grjót[illegible] stræti, heyrum við hávaða; en þegar þær eru reglulegar, eins og t.d. þær sem orsakast af því að boganum er strokið yfir [illegible]gina, heyrum við tóna. Eftir því sem hljóðöldurnar eru fleiri og styttri verður tónninn hærri, og aftur á móti því lægri, sem öldurnar eru færri og lengri.

Rúmsins vegna er ekki unt að lýsa

starfi skynfæranna nánar hér. Þau eru öll lík að þessu leyti, að áhrifin frá þeim berast til vissra stöðva í heilanum og olla þar einhverjum breytingum, sem svo aftur orsaka það að við skynjum, sjáum, heyrum, finnum til sársauka o. s. frv. Þessar skynjanir eru einföldustu fyrirbrigði sálarlífsins; en þær eru einnig þau fyrirbrigði þess, sem við vitum bezt hvaða skilyrðum eru háð. Þegar þeim sleppir taka önnur við, sem mynda hinn afar margbrotna vef sálarlífsins, hugsanir, tilfinningar og vilja.

Þegar við skynjum einhvern hlut. fylgir því vanalega vissa um að hann sé til í raun of veru, og að aðrir geti skynjað hann alveg eins cg við sjálf. Hjá heilbrigðu fólki er skynjunin svo lík að hlutirnir eru næstum alveg eins í augum flestra, eða, ef þeir eru ekki skynjaðir með augunum, þá eru áhrifin, sem þeir hafa á önnur skynfæri nálega hin sömu. Þó eru undantekningar frá þessu. Skynjun manna er mjög misjöfn. Sumir hafa, eins og kunnugt er, næmari heyrn og sjón en aðrir. Þeir sem hafa það sem kallað er gott söngeyra, geta greint sundur tóna, sem aðrir heyra alls ekki út af fyrir sig. Eins geta sumir greint sundur daufa liti, sem í augum annara eru alveg eins. Í rauninni er því ekki rétt að segja að við skynjum alla hluti nákvæmlega eins,

einhver ofur lítill mismunur getur alt af átt sér stað; en hann er sjaldnast nógur til þess að gefa hlutunum svo mismunandi útlit í augum okkar að við skiljum ekki fyllilega hvert annað, þegar við lýsum því sem við skynjum. Yfirleitt er hinn skynjaði heimur okkar sá sami fyrir okkur öll.

Heili mannsins tekur stöðugt á móti áhrifunum frá því sem er skynjað. Þessi áhrif vara mikið lengur en hver sérstök skynjunar-athöfn út af fyrir sig. Heilinn geymir áhrifin, og hefir þau til taks í hvert sinn, sem maður vill ryfja þau upp. Til dæmis vitum við vel hvað bók er, þó að við höfum enga bók fyrir augunum. Við höfum svo oft skynjað bók, og í heilanum eru ummerki eftir áhrifin, sem sú skynjun hefir haft, svo að við höfum glögga hugmynd um hvað bók er, þó að við höfum ekki nýlega skynjað nokkra bók; og jafnvel höfum glögga hugmynd um fjölda margar tegundir af bókum, bækur í léreftsbandi og bækur í skinnbandi, stórar bækur og smáar bækur, fræðibækur og sögubækur o. s. frv. En náttúrlega er ótal margt, sem við skynjum, sem hefir mjög lítil áhrif á heilann og hlýtur að skilja þar eftir mjög dauf merki. Þegar t. d. við göngum um fjölfarið borgarstræti, heyrum við ótal mörg hljóð og ótal margt ber fyrir augu. Langmest af því ekki aðeins hverfur strax

aftur, heldur gleymist alveg, það kallast aldrei fram aftur í huganum. Reyndar er það skoðun sumra sálarfræðinga, að allar skynjanir okkar, hvort sem þær vara lengur eða skemur, hvort sem þær eiga sér aðeins einu sinni stað, eða endurtakast aftur og aftur, skilji eftir einhver áhrif, sem geymist í undirvitundinni, þó að þau ef til vill komist aldrei aftur í hina vakandi meðvitund.

Ef nú skynfæri, taugar eða heili eru ekki heilbrigð, eða vinna ekki störf sín á réttan hátt, þá skynja menn hlutina öðru vísi en þeir eru. Einnig getur mönnum fundist þeir skynja það, sem þeir í raun og veru skynja ekki. Þetta er það sem kallað er skynvillur. Skynvillurnar eru margs konar, því öllum skynfærum getur skjátlast. Þær geta átt sér stað hjá þeim, sem eru alveg heilbrigðir að öllu leyti, en það er sjaldgæft. Aftur á móti eru þær algengar og endurtakast hvað eftir annað hjá fólki, sem hefir sjúk taugakerfi eða skynfæri. Við skulum nú athuga nokkrar algengar skynvillur.

Allir þekkja skynvillur þær, sem eru draumum samfara. Sálarfræðingunum ber ekki að öllu leyti saman í útskýringum sínum á draumum, en enginn vafi er á því að mjög mikill hluti allra drauma á rætur sínar að rekja til skynjunar í svefni. Það er algengt t. d. að mann

dreymi að maður sé að hrapa fram af björgum og vakni upp við það að annar fóturinn hangir út úr rúminu. Ofurlítill sársauki, sem stafar af því að maður liggur illa, getur orsakað langan draum um flótta undan óvinum og að maður sé stunginn með hnífi eða særður á einhvern annan hátt. Hljóð, sem berast að eyrum, og sem maður mundi naumast veita nokkra eftirtekt í vöku, gefa oft tilefni til drauma, sem eru fullir af hávaða og gauragangi. Og ljós getur haft sams konar áhrif á drauma. Þá er alkunnugt, hvernig, öll hlutföll tíma og vegalengda ruglast í draumum. Við ferðustum óravegu, stundum landa á milli, á svipstundu og oft án nokkurra flutningstækja í draumi ; og viðburðir, sem í vöku gerast á löngum tíma, koma oft fyrir alt í einu, okkur dreymir þá, án þess að við höfum nokkra meðvitund um tíma ; en í vöku erum við í raun og veru aldrei án þess að hafa meðvitund um tíma. Náttúrlega eru ekki allir draumar afleiðingar ytri áhrifa, sem líkaminn verður fyrir í svefni. Sumir draumar eiga upptök sín í hugsuninni. Margt, sem [illegible] geymst í undirvitund okkar jafnvel svo árum skiftir, kemur í ljós í draumum, svo er t. d. þegar mann dreymir um viðburði frá barnæsku, sem hafa verið gleymdir um lengri tíma. Einnig dreymir mann oft um það sem

maður hefir verið að hugsa um skömmu áður en maður sofnaði, og stundum kemur það fyrir að langir draumar spinnast út af þess konar umhugsunarefnum. Stundum virðist og að mann dreymi um það, sem maður hefir ekki gefið sér tíma til að hugsa um í vöku, en sem hefir haft einhver áhrif á mann. Draumar af þessu tægi, það er að segja draumar, sem ekki orsakast af skynjun í svefni, eru líka fullir af villum, þannig t. d. hverfa fjarlægðir og tímalengdir í þeim. En oft fylgir efni draumsins samt einkennilega rökréttri viðburðarás. Og þess konar draumar eru það vanalega, sem fólk tekur mark á.

Það er utan við efnið hér að ræða um, hvort menn dreymi fyrir óorðnum viðburðum. Mjög margt fólk trúir því og þykist margoft hafa tekið eftir því að draumar sínir hafi komið fram. En þess ber að gæta, að allir, sem reyna að muna drauma sína, hljóta að geta fundið einhverja líkingu milli þeirra og margra atburða sem koma fyrir þá í vökureynslunni, án þess að nauðsynlegt sé að gera ráð fyrir sérstöku og óskiljanlegu sambandi milli draumanna og atburðanna. Þannig t. d. er mjög algengt að fólk dreymi vatn eða sjó, og halda sumir sálarfræðingar að það standi í sambandi við ástand vissra líffæra í líkamanum. En ef mann dreymir vatn eða sjó, þá er

líklegt að hugmyndasamböndin, sem eiga sér stað í draumum alveg eins og í vöku, tengi annað skylt hugtak t.d. skip við hið fyrra ; og svo ferð með skipinu, eða eitthvað annað, sem eðlilega mundi koma upp í huga þess sem dreymir, ef hann væri vakandi að hugsa um þessa hluti. En hvernig getur þá vatnið og skipið verið fyrirboði þess að hann eigi sjóferð fyrir höndum, ef orsakir draumsins eru í rauninni líkamlegt ástand mannsins meðan hann er að dreyma og eðlileg hugmyndasambönd? Sama má segja um fjölda margt í draumum, sem fólk tekur mark á og skoðar sem fyrirboða óframkominna viðburða. Þó verður því ekki neitað að sumir draumar, sem sagðir eru, virðast merkilega líkir því sem síðar hefir komið fram við þá, sem hefir dreymt þá. En vitaskuld má gera ráð fyrir að slíkt geti stafað eingöngu af tilviljun ; og einnig ber að gæta þess, að draumar, sem eru sagðir vegna þess að þeir þykja merkilegir, munu ávalt vera meira eða minna færðir í stílinn.

Missýningar í vöku eru algengar, eins og kunnugt er. Þær eru ýmist þannig, að eitthvað sem er séð sýnist vera annað en það er í raun og veru, eða að eitthvað sýnist þar sem ekkert er. Þær fyrri eru, eins og gefur að skilja langt um almennari en þær síðari. Oftast stafa þær af því að sýnin kallar fram í huganum eitt-

hvað sem líkist henni, minnir á eitthvað, sem svo eins og kemur í staðinn fyrir sýnina sjálfa. Mörgu fólki missýnist mjög auðveldlega, ef eitthvað býr því ríkt í huga, sérstaklega ef að sterk eftirvænting, eða ótti, er samfara umhugsuninni. Nýlega var saga í blöðunum af manni hér einhverstaðar vestur í landi, sem fór út í skóg til að skjóta skógarbjörn. Hann sá björninn og skaut hann. En þegar hann kom að honum sá hann að það sem hann hafði skotið var svört kýr, sem nágranni hans átti. Hér var fullkomin missýning. Það sem maðurinn hélt að hann sæi var björn, af því að hann var að leita að birni, þó að hluturinn sem olli missýningunni væri kýr. Hluturinn, sem hann sá, aðeins framkallaði bjarnarhugmyndina, sem var svo rík í huga hans, að hún strax útrýmdi öllu öðru. Hver önnur svört skepna sem var og jafnvel dauður hlutur svartur, hæfilega stór, mundi hafa gert það sama. Flestir þekkja missýningar af þessu tægi af eigin reynslu. En auðvitað er ekki um verulega missýningu að ræða nema hin ímyndaða sýn komi alveg í staðinn fyrir hina verulegu. Það er ekki missýning þó að eitthvað, sem er séð sýnist líkt öðru. Og í verulegum missýningum er ekki um neina tillíkingu að ræða heldur alger umskifti; hið ímyndaða kemur alveg í staðinn fyrir hið verulega.

Hin tegund missýninganna, sem er í því fólgin að ímyndunin beinlínis framleiðir sýnir, þar sem engin veruleg sýn veldur blekkingunni, á sér sérstaklega stað þegar mjög sterkar geðshræringar eða æsingar hafa áhrif á alt sálarlífið. Sagan er full af frásögnum af þess konar missýningum. Munkar og nunnur á miðöldunum sáu allskonar sýnir, sem höfðu enga náttúrlega hluti við að styðjast. Savonaróla sá glóandi sverð; Lúther sá djöfulinn og kastaði blekbyttunni sinni í hann; Karl níundi sá svipi á sveimi kringum sig eftir Batólómeusarnóttina, þegar mótmælendur voru drepnir í þúsundatali á Frakklandi. Mörg fleiri dæmi um missýningar, sem eiga rætur sínar að rekja til sálarástands þeirra, er hafa séð þær, eru alkunn. Orsakir þeirra eru margar. Þær eru samfara ýmsum taugasjúkdómum, og ef taugarnar, sem bera áhrifin frá skynfærunum til heilans, verða fyrir ertingu, getur það valdið skynvillum. Þannig framleiðir þrýstingur á sjóntaugina ljós-skynjun, þó að ekkert ljós falli á augað.

Sjónar-skynvillur eru algengastar af öllum skynvillum; og þar næst eru heyrnar-skynvillur. Allir kannast við reimleika sögur, þar sem að óþekt og ónáttúrleg hljóð eru helztu fyrirbrigðin, sem sagt er frá. Misheyrnir eru mjög algengar, en naumast geta þær kallast

skynvillur nema að þær séu stöðugar eða vari eftir að tilraun hefir verið gerð til að leiðrétta þær. Oft þarf mjög litlar orsakir til þess að heyrnar-shynvillur eigi sér stað. Mörg dæmi eru til þess að mönnum, sem hafa verið á gangi í myrkri, hefir heyrst sinn eigin hjartsláttur vera fótatak einhvers, sem þeir hafa ímyndað sér að veitti sér eftirför. Allir vita af eigin reynslu, hversu öll hljóð verða margfalt hærri á nóttunni, þegar maður liggur vakandi og hlustar. Eftirvæntingin, einkum samt ef hræðsla er með henni, veldur því að skynjunin verður óeðlileg og stundum að fullkomnum skynvillum, svo að ofurlítið þrusk getur látið í eyrum eins og fótatak eða eins og hurðir séu opnaðar. Aðrar tegundir af skynvillum eru sjaldgæfari, en eiga sér samt stað.

Enginn vafi er á því að skynvillur eru langtum tíðari en menn alment gera sér grein fyrir. Og líklega á mjög mikið af hinum svo kölluðu dularfullu fyrirbrigðum rætur að rekja til þeirra. En þar með er ekki sagt, að ekki séu til sönn fyrirbrigði sálarlífsins, sem menn skilja ekki ennþá til fulls. En þeir sem mesta reynslu þykjast hafa af dularfullum fyrirbrigðum kæra sig sjaldnast um sálarfræðislegar útskýringar; þeir hafa sínar útskýringar, sem þeir vanalega hafa slegið föstum áður en þeir hafa haft nokkra reynslu af

fyrirbrigðunum. Í augum þeirra eru þau því ekkert annað en sannanir fyrir hinum fyrir fram ákveðnu útskýringum; og þá er ekki að búast við rannsókn eða leit eftir orsökum. Enda hafa mörg fyrirbrigði, sem fólki hafa þótt undursamleg, reynst alt annað en dularfull, þegar þau hafa verið rannsökuð af þeim, sem hafa ekki verið eins auðtrúa. Alt svikafargan andatrúarmiðla, sem hvað eftir annað hefir verið leitt í ljós, byggist einmitt á því að mörgu fólki hættir við skynvillum, og lætur þess vegna auðveldlega blekkjast. En vitaskuld eru miðlar til, sem ekki beita neinum svikum. Og það eina, sem að rannsóknir, sem gerðar hafa verið á þeim, virðast hafa sannað er það, að sálarlíf þeirra er frábrugðið sálarlífi annara manna. Helztu frábrigðin og vanalegustu eru þau, að persóna miðilsins gjörbreytist við það að falla í dá og getur komið í ljós í mörgum myndum, sem eru honum allar jafn ósjálfráðar. En þess konar óskiljanleg persónuskifting á sér stað hjá fleirum en miðlum. Og auk þess koma önnur sálarlífsfyrirbrigði fyrir við og við, sem eru alveg eins merkileg og óskiljanleg og miðilsástandið. En í öllu þess konar er almenningur ófær til að mynda sér skoðarnir, sem séu nokkurs virði, og rannsóknir í þeim efnum eru, eins og gefur að skilja, engra meðfæri nema sálarfræðinga.

Frá alda öðli hafa menn reynt að gera sér einhverja grein fyrir sambandinu milli sálar og líkama. Sú skoðun, að sálin gæti farið burt úr líkamanum og komið í hann aftur, virðist hafa verið útbreidd um allan heim. Þessi skoðun finst nú hvergi nema meðal villimanna. Alt sálarlíf er nátengt taugakerfi og heila, en þó eitthvað annað og meira en afleiðing efnislegra hreyfinga í þessum aðseturs-stað sínum. Sálarlífið er miklu meira en skynjanir. Það er straumur hugsana og innri meðvitundar, sem að miklu leyti virðist vera óháður öllu því, sem utan að kemur, þó að efnið í því öllu sé, ef til vill, í fyrstu utan að fengið. Og þessi straumur meðvitundarinnar getur snúið við og eins og runnið í sjálfan sig. I sjálfsmeðvitund sinni aðskilur mannssálin sig frá öllu ; en einmitt þá er hún vissust um tilveru sína yfir öllu líkamlegu og efnislegu. Og í sjálfsmeðvitund og innskoðun lærir sálin að þekkja sjálfa sig. En hvernig sambandinu milli þessa insta kjarna hvers manns og líkamans er farið, er ein af myrkustu og flóknustu ráðgátunum, sem hugur mannsins hefir reynt að leysa úr.

---

# BLAÐAMENSKAN Í MUDTOWN.

Ritstjóri vikublaðsins í Mudtown sat við skrifborðið sitt og var að hugsa um, hvernig hann ætti að fylla næsta blað. Hann opnaði skúffuna, sem hann geymdi í aðsendar ritgerðir, til að sjá hvort þar væri nokkuð, sem nota mætti í blaðið.

Fyrst dró hann upp tvö fréttabréf. Þau voru orðin nokkuð gömul, en altaf síðan þau komu hafði nóg verið til af fréttabréfum, sem voru ennþá eldri—og viðvíkjandi fréttabréfum fylgdi ritstjórinn þeirri reglu að birta það fyrst, sem blaðinu barst fyrst. En nú var komið að þessum fréttabréfum, og nú komu þau í góðar þarfir. Ritstjórinn rendi augum yfir annað þeirra. Í því var löng og leiðinleg lýsing af brúðkaupsveizlu, og fylgdu henni fjögur kvæði, sem höfðu verið ort til brúðhjónanna, og lesin í veizlunni af höfundunum sjálfum. Svo var skýrt frá því, að einn af nágrönnum fréttaritarans hefði nýlega fengið sér vél

af nýjustu gerð til að mala með svínafóður. Og að lokum var þakklæti til ritstjórans sjálfs fyrir þann ómetanlega fróðleik og hinar ágætu ritgerðir um landsmál, sem blað hans flytti lesendum sínum í hverri viku; og var fullyrt að aldrei hefði blaðið verið jafn ágætlega úr garði gert og síðan hann tók við stjórn þess.

Ritstjórinn brosti. Hann var vel ánægður með þetta fréttabréf. Einmitt svona áttu fréttabréf að vera. Þau áttu að flytja fréttir, sem gerðu blaðið vinsælt út um sveitirnar. Í þessu bréfi var skýrt frá því helzta, sem nýlega hafði gerst í einni sveitinni, þar sem blaðið var útbreiddast. Auðvitað var lýsingin af brúðkaupsveizlunni óþarflega löng; það er að segja, hún var óþarflega löng fyrir aðra út í frá, en hún var ekki of löng fyrir þá, sem þar áttu hlut að máli; það var ómögulegt annað en að þeim geðjaðist að henni og yrðu bæði fréttaritaranum og blaðinu þakklátir fyrir hana. Það gat líka verið álitamál, hvort ekki væri full mikið að setja fjögur brúðkaupskvæði, sem öll voru flutt í sama brúðkaupi í sama blaðið. En talsverðra vinsælda mundi það samt afla blaðinu hjá öllum bygðarmönnum, sem hlaut að þykja vænt um að sjá, að sín bygð stæði ekki öðrum að baki í skáldskap fremur en búskap. Það var sjálfsagt að birta

kvæðin ; og þar sem það var sjálfsagt að birta þau, hvernig sem þau væru, fanst ritstjóranum hreinn og beinn óþarfi að lesa þau áður en prentarinn tæki við þeim. Lofið í enda bréfsins var líka gott ; því þó að ritstjóranum sjálfum stæði alveg á sama um það, hvort honum væri hælt eða ekki, sýndi það sumum lesendum blaðsins, að til væru menn, sem kynnu að meta hæfileika hans. Náttúrlega var ekki þörf á því, en samt gat það hjálpað ofur lítið til að auka álit hans, sem ritstjóra, meðal almennings ; og allra helzt nú, því að nýlega hafði maður, sem var kallaður merkur, sagt blaðinu upp og farið að kaupa andstæðingablaðið ; og hafði látið þess getið í andstæðingablaðinu um leið, að hann skifti um vegna þess að blaði því, sem hann um mörg ár hefði keypt og lesið hefði hnignað svo stórkostlega undir stjórn núverandi ritstjóra.

Hitt fréttabréfið var annars efnis. Í rauninni var það ekki fréttabréf, heldur ritgerð um landsmál, sem var stíluð eins og fréttabréf. Mudtown blaðið var stjórnmálablað, það fylgdi eindregið stefnu annars stærsta stjórnmálaflokksins í landinu, og dró engan dul á það. Stefnufesta í stjórnmálum, eins og ritstjórinn komst að orði, var ein hin stærsta dygð hvers borgara í landinu ; og stefnufestan sagði hann að kæmi sérstak-

lega í ljós í því að menn fylgdu sínum flokki í öllu, og væru á móti öllu, sem ætti rætur að rekja til andstæðingaflokksins. Þessari kenningu hafði blaðið ávalt fylgt; og ritstjórinn, sem hafði gert yfirlýsingu um það, þegar hann tók við ritstjórninni, að hann ætlaði, af fremstu kröftum, að fylgja þeirri stefnu, sem blaðið ávalt hefði haft í stjórnmálum, sat sig aldrei úr færi um að fletta ofan af svívirðingum mótstöðuflokksins, eins og hann kallaði það. Og þar sem svívirðingar mótstöðuflokksins voru margar í augum ritstjórans, þurfti oft að fletta ofan af. Fréttabréf, sem var fult af mergjuðum skömmum um mótstöðuflokkinn, og sem beinlínis sannaði, að opinberu fé hefði verið varið til að afla honum fylgis, átti þess vegna vísa upptöku í blaðið. Ritstjórinn var hæst ánægður með alt, sem höfundur bréfsins sagði. Að vísu var hann ekki alveg viss um að eitt eða tvö atriði, sem á var drepið í bréfinu, væru rétt; en hvað gerði það til. Bréfið í heild sinni var náttúrlega rétt, og ef eitthvað var fært á verri veg, þá var það alveg mátulegt handa mótstöðuflokknum; það fylgdi stefnunni að gera honum alt sem unt væri til ílls. Ritstjórinn afréð að skrifa langa ritstjórnargrein með bréfinu undir fyrirsögninni: "Ein svívirðingin ennþá opinberuð."

Ritstórinn hélt áfram að draga upp úr skúffunni. Næst varð fyrir honum löng ritgerð. Hún var búinn að liggja lengi í skúffunni. Oft hafði ritstjórann langað til að setja hana í blaðið, þegar hann hafði lítið efni í það, en aldrei hafði hann þorað að gera það, því greinin var um það sem ekki mátti ræðast í blaðinu—hún var um trúmál. Kaupendur blaðsins höfðu margar mismunandi trúarskoðanir, og eini vegurinn til að halda vinsældum þeirra allra var sá, að birta ekkert, sem snerti trúmál beinlínis í blaðinu. Sumir kaupendurnir höfðu enga skoðun í trúmálum, og við þá var erfiðast að eiga. Þeir skoðuðu það mestu móðgun við sig, ef nokkuð var minst á trúmál í því. Einu sinni hafði blaðið tapað tveimur kaupendum vegna trúmálaritgerðar, sem hafði birzt í því. Ritstjórinn vildi ekki að annað eins kæmi fyrir aftur. Reyndar gat hann ekki skilið að ritgerðin yrði til þess að nokkur maður segði blaðinu upp, þó að hún birtist í því; sannast að segja fanst honum ekki líklegt að nokkur maður læsi hana. Sjálfur hafði hann litið í hana hér og þar og ekki botnað lifandi vitund í henni. En samt var vissara að eiga ekkert á hættu. Tíminn var heldur ekki hentugur, því að löng og hörð deila milli tveggja helztu trúmálaflokkanna í Mudtown var nýafstaðin, svo blaðið varð að fara mjög

varlega til þess að móðga engann. Ritstjórinn lagði greinina frá sér og stundi. Hann gat ekki annað en hugsað um hvað hlálegt það væri að svona löng grein skyldi ekki vera um eitthvað annað, sem blaðið, stefnu sinnar vegna, mætti birta, t.d. um stjórnmál—skammagrein um mótstöðuflokkinn. Ritstjórinn brosti við umhugsunina um það að sér bærist skammagrein um mótstöðuflokkinn, sem fylti upp meiri hluta blaðsins—sú mundi ekki liggja lengi í skúffunni.

Nú var farið að minka í skúffunni. Ein eftirmæli í ljóðum um einhvern, sem ritstjórinn hafði aldrei heyrt nefndan á nafn ; tvær skammavísur um mótstöðuflokkinn, eftir vel þektan hagyrðing, sem orti tækifærisljóð, óbeðinn, hvar sem hann gat komið því við ; og svo stutt kvæði eftir einhvern, sem var of feiminn til að láta nafnið sitt standa undir því. Ritstjórinn afréð undir eins að taka eftirmælin og skammavísurnar ; en kvæðinu stakk hann aftur í skúffuna, það var víst nóg komið af skáldskap í þetta blað með öllum brúðkaupskvæðunum.

Ekki var þetta nóg í blaðið, ekki einu sinni í helminginn af því. Ritsjórinn fór að hugsa um fréttirnar. Hann hafði alt af verið heldur upp með sér af því að blað sitt væri gott fréttablað. Meginregla hans viðvíkjandi fréttum var sú, að taka sem mest af þeim fréttum, sem fólk

hefði skemtun af að lesa, og allar fréttir, sem hann gat náð í, úr Mudtown og nágrenninu. Hann sagði að blað sitt væri alþýðublað, og fólk vildi fyrst fá að vita um það sem væri að gerast kringum sig, og svo um það sem gerðist út um heiminn, ef það væri dálítið gaman að lesa um það, einhver æfintýrabragur á því. Flestir, sem komu til Mudtown litu inn til ritstjórans, og þess var æfinlega getið í næsta blaði,og oft líka í hvaða erindum þeir hefðu komið til bæjarins; stundum var því bætt við, hvernig þeir hefðu litið út. eða hvað þeir gerðu heima í sveitunum. Ef þeir voru bændur, þá var þess getið í blaðinu að þeir ættu fyrirmyndarbú, eða ef þeir stunduðu einhverja aðra atvinnu, þá var þess getið, og bætt við að þeim farnaðist ljómandi vel. Og ekki var bæjarbúum sjálfum sýnd minni viðhöfn. Blaðið hafði alt af einhverjar fréttir að færa af þeim. Stundum var sagt frá samkomum og skemtisamkvæmum, og þá var ekki sparað ljúka lofsorði á þá sem höfðu skemt. Mudtown var full af afbragðs ræðumönnum og allskonar snillingum, sem blaðið var stöðugt að geta um til fróðleiks og uppbyggingar fyrir lesendur sína út um sveitirnar. Fyrir alt þetta var blaðið vinsælt, og öllum, sem einhvern tíma hafði verið getið um í því, var vel til ritstjórans.

Ritstjórinn hafði nóg í bæjarfréttadálkinn í þetta sinn. Og þrír fyrirmyndar bændur höfðu litið inn til hans tvo síðustu dagana. En aðalfréttirnar utan úr heiminum vantaði enn að mestu leyti. Nú varð hann að fara að leita að þeim í öðrum blöðum. Hann seildist eftir blaðabunka og leit á nokkrar fréttagreinir í þeim, sem hann hafði markað með bláum blýanti. Þarna er ein ágæt, hugsaði hann með sér um leið og hann leit á fréttagrein með feitletraðri fyrirsögn. Hún var um bankarán í Texas, og höfðu þjófarnir verið eltir af múg og margmenni, þar til þeir náðust, en peningarnir, sem þeir stálu, fundust hvergi. Önnur var um merkilega uppgötvun, sem læknir nokkur í New York hafði gert, og sem sannaði það að sálin hefði þyngd. Ennþá var ein, sem sagði frá að við strendur Ástralíu hefði nýlega sést ógurleg skepna, sem menn héldu að væri sjóormur. Þessa fregn hugsaði ritstjórinn sér að laga dálítið til og gera sögulegri. Ýmislegt fleira hafði hann merkt, og svo mundi eitthvað nýtt koma áður en að fréttadálkarnir þyrftu að vera tilbúnir. Það var alveg ótrúlegt hvað mikið mátti tína saman af fréttum, sem væru bæði skemtilegar og fróðlegar, án þess að taka of mikið af þessum löngu og þurru fréttum um ýms stórmál, sem auðvitað var hægt að fá nóg af, en sem

almenningur kærði sig ekki um að lesa. Fyrir alþýðublað eru það einmitt smáfréttirnar, og helzt þær sem segja frá einhverju óvanalegu, einhverju, sem vekur athygli fólksins, sem eru lang beztar, hugsaði ritstjórinn með sér.

En eitthvað þurfti meira. Stutt ritstjórnargrein út af fréttabréfinu var sjálfsögð, og önnur ritstjórnargrein um nýtt fyrirtæki, sem nokkrir Mudtown búar vildu koma í framkvæmd, og sem þeir fullyrtu að yrði bænum til stórkostlegs hagnaðar með tímanum. Ritstjórinn hafði hugsað sér að verða á móti því og beita áhrifum sínum og blaðsins til að eyðileggja það. Reyndar gat vel verið, að þeir, sem börðust mest fyrir því, hefðu alveg rétt fyrir sér, en þeir voru úr andstæðingaflokknum, og hann ætlaði ekki að gera sig sekan um það stefnuleysi að fara að mæla með nokkru, sem kæmi upp í andstæðingaliðinu. Það var sama hvort það snerti stjórnmálin eða ekki. Hver vissi líka nema að þetta nýja fyrirtæki væri aðeins bragð til þess að ná í fylgi við næstu kosningar. Andstæðingaflokkurinn var til alls vís, og bezt væri að gefa honum ekkert eftir í neinu. Ef þetta yrði ekki nóg þurfti ekkert annað en að taka eitthvað upp úr öðrum blöðum. Oft hafði hann gert það áður, og á þann hátt hafði blað hans flutt ritgerðir eftir merka höfunda. Það gaf því dá-

lítið bókmentasnið og sýndi smekk ritstjórans í valinu. Auðvitað var ekki víst að allir lesendur blaðsins læsu þessar ritgerðir; því sumar þeirra höfðu hreint ekki verið um þau efni, sem að þeir hugsuðu mest um og báru skyn á, en einstöku maður hlaut þó að sjá að hann, ritstjórinn, læsi og fylgdist með í mörgu, sem mentaðir menn töluðu og rituðu um. Og náttúrlega mundi hann aldrei velja neitt, sem gæti gert blaðið óvinsælt meðal lesenda sinna. Nei, heldur skyldi hann skrifa sjálfur alt sem þyrfti til að fylla blaðið, sem væri raunar erfiðasta verkið í ritstjórastöðunni.

Ritstjórinn hallaði sér makindalega aftur á bak í stólnum. Hann fór að hugsa um það, sem hann hafði einhverstaðar séð að einhver hefði sagt, nefnilega, að blöðin væru stórveldi í andlega heiminum nú á tímum. Já, það var það sem hann vildi láta sitt blað verða—stórveldi í Mudtown og sveitunum í kring.

---

# SJÁLFSSTJÓRN.

Yfir dyrum Appollóns-musterisins í Delfi voru letruð orðin: *meden agan* (af engu of mikið). Í þessum tveimur orðum var sett fram ein af helztu siðferðiskenningum Forn-Grikkja, hófsemiskenningin. Hófsemi, eða sjálfsstjórn, sem í augum þeirra var eitt og hið sama, var dygð, sem líf einstaklingsins gat ekki verið fullkomið án. Einn af mestu spekingum þeirra, Plató, sagði að höfuðdygðir mannsins væru fjórar: vizka, hugrekki, sjálfsstjórn og réttsýni. Líf þess manns, sem hafði þessar fjórar höfuðdygðir var hið fullkomnasta og fegursta líf, sem unt var að lifa. Í því var samskonar samræmi og í listaverki. Fegurð lífsins, eins og fegurð listaverksins, var fólgin í hæfilegum hlutföllum milli allra hluta þess. Markmið allrar mentunar átti að vera það, að kema mönnum að lifa hinu fagra og samræmisfulla lífi.

Þegar grísk-rómverska menningin leið undir lok og alt líf vestrænu þjóðanna komst undir áhrif, og að lokum yfirráð, kyrkjunnar, varð þessi sjálfstjórnar-hug-

sjón að víkja að mestu leyti fyrir annari, sem gagntók hugi margra með krafti, sem frá sjónarmiði nútíðarmannsins er næstum óskiljanlegur, en það var sjálfsafneitunar-hugsjónin. Hið hæsta og bezta líf var ekki lengur í því falið að njóta gæða lífsins í hófi og hafa fullkomið vald yfir öllum hneigðum, heldur í því, að afneita sem flestum gæðum og bæla niður sem flestar hneigðir. Að vísu voru þeir ávalt fáir, sem það gátu gert, en það var samt lífið, sem var fullkomnast, samkvæmt lífsskoðun þeirri, sem kyrkjan kendi. Þessi mikla breyting stafaði bæði af megnri óbeit, á hinu stjórnlausa nautnalífi hinna ríku Rómverja, sem byrjaði snemma að gera vart við sig hjá hugsandi mönnum, og af trúnni á eyðileggingu heimsins og nýtt sælulíf hinu megin grafarinnar, sem var svo sterk í kristninni lengi niður eftir öldum. Ekkert annað en vonin um laun í öðru lífi og megnasta óbeit, jafnvel hatur á því, sem var af þessum heimi, hefði getað komið munkum og einsetumönnum á fyrri hluta miðaldanna til að lifa því lífi, sem þeir lifðu. Og þó að sjálfsafneitunarlíf þeirra væri langt frá því að vera alment, náði lífsskoðunin, sem það var ávöxtur af, til allra stétta, svo að sjálfsafneitun, en ekki sjálfsstjórn varð að höfuðdygð á þeim tímum.

Nútíðin byggir í þessu, sem í svo

mörgu öðru, bæði á miðöldunum og fornöldinni. Kyrkjuleg siðfræði hefir alt að þessu lagt og leggur ennþá mesta áherzlu á sjálfsafneitun. Samkvæmt henni er lífið fult af freistingum, sem mönnum ber að varast; en það geta þeir gert aðeins með því að vera sífelt á verði gegn sínum eigin hneigðum og hvötum. Náttúrlegar hvatir eru illar og leiða til syndar, ef þær eru ekki bældar niður. Milli holdsins og andans er óaflátanlegt stríð. Þetta er skoðun kyrkjunnar, sem í aðalatriðunum hefir haldist óbreytt síðan á miðöldum. En aftur á móti hefir risið upp ný siðfræðisleg stefna utan kyrkjunnar, og að nokkru leyti í mótþróa við hana, sem nálgast miklu meira hina forngrísku sjálfsstjórnar hugmynd. En það sem sérstaklega einkennir þessa nútíðarstefnu er það, að hún styðst við vísindaleg sannindi, sem voru algerlega óþekt fyr á tímum. Hún á sammerkt við grísku siðfræðina í því að hún leggur áherzlu á siðferðislegan þroska mannsins fyrir það líf, sem hann lifir hér; en hún hefir það umfram hana, að hún leitast við að færa sér í nyt þekkingu nútíðarinnar bæði á líkamslífi og sálarlífi mannsins.

Samkvæmt þessari nýju, vísindalegu siðfræðisstefnu er sjálfsstjórn ein af aðaldygðunum, ein af þeim allra-nauðsynlegustu fyrir hvern mann. En sú

sjálfsstjórn, sem hún kennir, er miðuð við það sem er hollast fyrir manninn. Náttúrlegar og meðfæddar hneigðir eru ekki skoðaðar illar í sjálfum sér, en þær verða það, þegar þær leiða til nautna, sem hafa veikjandi og niðurlægjandi áhrif á líkama og sál. Og markmiðið, sem þessi siðfræði setur mönnum er heilbrigt líf. Það er ekki sú lífs-fegurð, sem vakti fyrir siðspekingunum grísku, sem leituðu að samræmi allra hliða lífsins, heldur heilbrigðisleg fegurð, sem næst aðeins með því að maðurinn sé óveiklaður bæði á sál og líkama, og hæfur til að beita öllum kröftum sínum til einhverra starfa.

Þegar um skaðsemi nautna er að ræða, verður auðvitað fyrst og fremst að taka til greina niðurstöðu vísindanna og almennrar reynslu um afleiðingar þeirra fyrir líkamlega og sálarlega heilbrigði. Ef dæmt er af handahófi í því efni, komast menn út í allskonar fjarstæður. Gott sýnishorn af því er afstaða sumra kyrkjuflokka gagnvart ýmsum skemtunum. Það eru til kyrkjuflokkar, sem skoða algengar skemtanir, svo sem það að spila á spil, sækja dansleiki og leikhús, og fleira þess háttar mjög skaðlegar nautnir. Náttúrlega er slíkt mesta fjarstæða, sem oft hefir haft ill áhrif á siðferði fólks. Hver nautn verður að metast út af fyrir sig og eftir þeim afleiðingum, sem hún hefir í för með sér.

Fyrst má taka hófleysi í mat og drykk. Fæðan er nauðsynleg fyrir líkamann, og það mismunar hversu mikla fæðu líkminn þarf að hafa, eftir því hversu mikið erfiði hann drýgir. En fæðan er ekki eingöngu efni, sem látið er í líkamann til þess að framleiða svo og svo margar hitaeiningar á hverjum sólarhring, eins og þegar kolum er mokað undir gufuketil. Það er nautn fyrir manninn að taka fæðu, og hún því meiri sem hún er ljúffengari. Þessi nautn er alveg ósaknæm sé hófs gætt í henni. En óhóf hefir hættulegar afleiðingar. Margir læknar eru þeirrar skoðunar, að flestir neyti ekki aðeins óþarflega mikillar heldur of mikillar fæðu, meiri en holt sé fyrir heilsu og líkamlega vellíðun. Og allir vita það af eigin reynslu, að sjálfsstjórn er ekki síður nauðsynleg í því en mörgu öðru. Heilbrigður líkami gefur til kynna, hversu mikils er óhætt að neyta, en þeir eru víst fáir, sem aldrei fara út fyrir þau takmörk, nema að þeir beiti viljakrafti til þess að halda sér innan þeirra. Þó að sumt af því, sem að nú er prédikað um matinn, sé eflaust ekki á sem beztum rökum bygt, má gera ráð fyrir að margt af því sé satt. Og sé nokkuð að marka það sem sagt af þeim, er bezt vit ættu að hafa á því hvað líkamanum er hollast, þá má óhætt trúa því að meiri sjálfsstjórn í nautn fæðunnar mundi fækka sjúkdóm-

um og lengja, ef til vill, lífdaga manna yfirleitt.

Í þessu sambandi á vel við að minnast á nautn áfengra drykkja. Allir eru sammála um það, að engin nautn sé yfir höfuð að tala eins skaðleg og áfengisnautnin. En það sem mönnum ber ekki saman um er það, hvort að öll áfengisnautn, í hvað smáum mæli sem hún er, sé skaðleg. Sumir mæla með hóflegri áfengis nautn, vegna þess að hún auki gleði, og vegna þess að áfengið fullnægi hneigð, sem sé í mönnum, og eigi eins mikinn rétt á sér og aðrar hneigðir. Þeirra skoðun er, að þó að það sé rétt, að af engu megi of mikils neyta, megi samt neyta einhvers af öllu. En sú skoðun er sýnilega röng, því það hvers má neyta og hvers má ekki neyta fer eingöngu eftir því, hvaða afleiðingar það hefir fyrir neytendurna. Fjölda margar rannsóknir og tilraunir, sem hafa verið gerðar af vísindamönnum, sem hafa haft það eitt fyrir augum að komast að sannleikanum, hafa sýnt, að áfengi hefir ávalt skaðleg áhrif bæði á líkami manna og sálarlíf. Það er dómur vísindanna, sem varla nokkur maður leyfir sér nú að mótmæla, að áfengi í öllum myndum sé skaðlegt frá heilbrigðislegu sjónarmiði, nema í höndum lækna ; og jafnvel þá ekki óskaðlegt, að áliti sumra. Sé þetta rétt, þá er öll áfengisnautn sýnilega

hættulegt óhóf. Þessi skaðsemi áfengisins fyrir heilbrigði sálar og líkama er auðvitað falin í hinum sérstöku áhrifum þess á líkamann. Allar vísindalegar rannsóknir á því hafa miðað í þá átt, að færa það úr flokki fæðutegunda yfir í flokk eiturtegunda. Og í áhrifum þess sem eiturs, sem skapar í þeim, sem byrja að neyta þess, hneigð til stöðugrar nautnar, liggur stærsta skaðsemi þess. Hversu lítils, sem neytt er af áfengi er það of mikið. Þess vegna á engin önnur sjálfsstjórn við í því efni en sú, að neyta þess alls ekki. Og jafnvel þó að dómur vísindanna væri ekki eins ákveðinn á móti áfengisnautn og hann er, hefðu þeir sem halda fram algerðu bindindi rétt fyrir sér. Áhrif áfengisins á mannkynið í siðspillingar- og niðurlægingaráttina, áhrif, sem öllum eru augljós, eru meira en nóg ástæða til þess að allir ættu að neita sér um það. Siðferðislega er það og verður ávalt rangt að viðhalda því, sem er miklum hluta mannkynsins til óheilla. En í raun og veru hjálpar hver sem áfengis neytir til að viðhalda því, viðhalda því sem verzlunvöru, sem allir geta keypt. Það er sömu lögum háð og allir hlutir, sem ganga kaupum og sölu, þegar menn hætta að krefjast þess, hættir framleiðsla þess af sjálfu sér.

Samkvæmt sjálfsafneitunar siðfræðinni áttu flestar skemtanir að vera illar, og

yfirleitt alt, sem örfaði lífsgleði manna. Samt tókst aldrei að útrýma skemtunum; og jafnvel á miðöldunum, þegar yfirráð kyrkjunnar voru sem mest og heimsafneitunin á hæsta stigi, tíðkuðust skemtanir, sem voru engu siðsamlegri en lakari skemtanir nú á tímum. Það er vel skiljanlegt, hvers vegna skemtunum varð ekki útrýmt, þegar þess er gætt, hversu rík gleðiþráin er í flestum mönnum. Það sem liggur til grundvallar fyrir því er sú sálarfræðislega sannreynd, að tilbreytingarlaust líf er flestum óbærilegt líf. Eintómt starf, eða eintómt yðjuleysi, verður, þegar til lengdar lætur, þreytandi, og svo verður alt, sem engin tilbreyting er í. Nú á tímum er alment viðurkent að skemtanir séu nauðsynlegar; og möguleikar almennings til að njóta skemtana eru víðast hvar margfalt meiri en nokkru sinni áður. En þessu fylgir eðlilega meira og minna hófleysi í skemtananautnum. Það er til fólk, sem gerir ekkert annað en að skemta sér. Hér í Ameríku hefir því verið gefið sérstakt nafn, "ríkir yðjuleysingjar." Að vísu eru það fáir af öllum fjöldanum, sem geta sökt sér niður í yrðjuleysis- og nautnalíf, en allur fjöldi fólks, sem í stórborgum lifir á kost á að neyta skemtana í óhófi, ef það vill. Og þegar að því er gáð hvaða skemtanir það eru, sem fólk sækist mest eftir, sést fljótt að sjálfsstjórn

er jafnvel minni í þeim nautnum en flestum öðrum. En er hún ónauðsynlegri í sambandi við skemtanir en aðrar nautnir? Ef nytsemi skemtananna og mikið af ánægjunni, sem þær veita, er falið í því að þær eru tilbreyting og umskifti frá daglegum störfum, þá liggur í augum uppi að þær verða að vera í hófi til þess að koma að þessum notum. Skemtanirnar sjálfar verða þreytandi, séu þær of miklar; svo að ánægjan af þeim er undir hóflegri nautn þeirra komin. Og ennfremur veita þær skemtanir mesta gleði, eins og allir vita, sem skilja eitthvað varanlegt eftir, en minsta gleði þær, sem eru aðeins augnabliksnautn. Þess vegna er val skemtananna, þar sem um margs konar skemtanir er að ræða, atriði, sem er þess vert að athuga vel; og það því fremur sem þær skemtanir, er veita varanlegasta gleði hafa oftast nær betri áhrif frá siðferðislegu sjónarmiði. Það er oft talað um siðspillandi skemtanir, og það er nóg til af þeim; en það eru einnig til siðbætandi skemtanir, og það er mikið til af skemtunum, sem hefir hvorki siðspillandi né siðbætandi áhrif. Í skemtanvali hugsa víst flestir um það að njóta þess sem skemtir bezt; en það sem skemtir bezt er það sem skemtir lengst, það sem skilur mesta ánægju eftir, sem verður notið löngu eftir að skemtunin sjálf er liðin hjá.

Í sambandi við skemtanir má minnast á hóf í klæðaburði, því það er að nokkru leyti hvað öðru skylt. Fötin eru fyrst og fremst ætluð líkamanum til skjóls og varnar, en þau hafa jafnframt aðra þýðingu, nefnilega þá að prýða. Fegurðartilfinning flestra krefst þess að fötin, sem þeir klæðast í, séu sæmilega útlítandi; og fyrir mörgum er það beinlínis nautn að bera skraut utan á sér. Til þess eru tvær orsakir. Í fyrsta lagi eru skrautgripir og skrautlegir búningar fagrir í augum þeirra, sem bera þá; og í öðru lagi hjálpa þeir til að vekja eftirtekt annara á þeim. Flest fólk gerir heilmikið til þess að láta aðra taka eftir sér, og mest af því sjálfsagt óafvitandi. Ekki þarf annað en að athuga látbragð fólks, þar sem margir eru saman komnir til að samfærast um það. Að vísu er það talið andstætt góðum siðum að gera of mikið að því að vekja athygli annara á sér á mannamótum, en í rauninni má sjá alstaðar í lífinu knýjandi þörf fyrir einstaklinginn til að vekja eftirtekt á sér, og þessi þörf kemur í ljós á svo ótal margan hátt. Klæðnaðurinn hefir ávalt verið notaður til að vekja eftirtekt. En of skrautlegur og íburðarmikill klæðnaður dregur ekki athygli að þeim sem ber hann, heldur að sjálfum sér; en með því er hinum upprunalega tilgangi skrautsins ekki náð. Hvað sé hæfilega

mikið skraut verður sjálfsagt aldrei ákveðið, því að smekkvísi og skrautgirni hvers og eins hlýtur ávalt að ráða mjög miklu um það, en það er nokkurn vegin algild regla, að skraut í klæðaburði sé of mikið, þegar það vekur óeðlilega mikla eftirtekt annara. Viðhafnarbúningar, sem aðeins eru notaðir við sérstök tækifæri eru þó undantekning frá þessu. Náttúrlega er til óhóf í klæðaburði, sem er falið í því að fólk klæðir sig skrautlegar en efni leyfa. Þess konar óhóf er mjög algengt, en það er eingöngu sprottið af vanhygni. Af skorti á sjálfsstjórn sprettur aftur á móti það hófleysi að nota klæðnaðinn til þess að draga athygli að sér um of, eða til þess að sýna að maður hafi efnalegar ástæður til að berast mikið á. Klæðnaðurinn fullnægir bezt heilbrigðri fegurðartilfinningu, þegar sem mest samræmi er á milli hans og þess sem ber hann. En það á sér hvorki stað, þegar hann er tötralegur, né þegar hann er mjög íburðarmikill, þó að vísu sé talsverður munur á, hvað vel eða illa bæði tötralegir og skrautlegir búningar fara fólki. En eitthvert samræmi verður að vera milli persónunnar sjálfrar og búningsins ; og hófsemin er falin í því að gæta þess að það samræmi raskist ekki um of.

Sjálfstjórn er ekki aðeins fólgin í valdi yfir hneigðum eins og þeim, sem

þegar hefir verið minst á, heldur líka í valdi yfir innri tilfinningum. Stóíkarnir með Grikkjum og Rómverjum til forna, sem gerðu sjálfsstjórnina að hinni hæstu mannlegu dygð, sýndu óvenjulega mikið jafnaðargeð, hvernig sem högum þeirra var háttað, þeir gáfu tilfinningum sínum aldrei lausan tauminn. Þeir fóru eflaust of langt í því ao bæla niður tilfinningar sínar og lífsskoðun þeirra var köld og óaðgengileg að mörgu leyti. En sjálfsstjórnarkenning þeirra er samt ein af hinum hæstu og hreinustu siðferðiskenningum, sem nokkurn tíma hafa verið fluttar í heiminum. Nú á tímum virðist yfirleitt vera tilfinnanlegur skortur á slíkri sjálfsstjórn. Oft má lítið út af bera til þess að heilir hópar af fólki missi algerlega vald yfir tilfinningum sínum; og í öllum málum fara einhverjir út í svæsnustu öfgar. Stjórnmáladeilurnar eru gott sýnishorn af því. Hvergi nokkurn staðar kemst flokksofstæki á eins hátt stig og í sambandi við stjórnmál. Það er oft sagt að flokksofstækið sé mest í trúmálunum, en það er ekki rétt; það er hvergi meira ofstæki að finna nú á tímum en í stjórnmáladeilum. Gífuryrði, skammir og hlægilegt, jafnvel stundum viðbjóðslegt, lof um flokka og menn eru það helzta sem flestir svo kallaðir stjórnmálamenn nota til að vinna sér og sínum flokki fylgi Af öllum þeim, sem eitthvað

fást við stjórnmál eru aðeins fáir, sem vinna sér fylgi með krafti sannfæringa sinna og manngildi. Mörg minni háttar mál draga dám af stjórnmálunum. Sá þykir oft snjallastur, sem er svæsnastur og ósanngjarnastur, bæði í ræðu og riti.

Enginn getur efast um að slíkt hófleysi og skortur á valdi yfir tilfinningunum í deilumálum, af hvaða tægi sem þau eru, er ílt og í rauninni ósamboðið öllum, sem vilja gera nokkra kröfu til að hugsa og tala skynsamlega um opinber mál. Í fyrsta lagi er alt ofstæki skortur á samræmi milli hugsunar og tilfinninga. En slíkt samræmi er nauðsynlegt hverjum manni, sem vill hafa varanleg áhrif á aðra. Samræmi milli hugsunar og tilfinninga er ekki sama og það, að vera kaldur og tilfinningarlaus fyrir öllu, það er ekki að vera rólegur og máske skeytingslaus, þó að betri tilfinningum manns sé misboðið. Það er aðeins að láta ekki hugsunina vera borna ofurliði af geðæsingu. Í öðru lagi er ofstækið ávalt ílt vegna þess að það villir mönnum sjónir. Þeir, sem rangan málstað hafa, eru alveg eins ákafir og heitir fyrir sínu máli eins og þeir, sem hafa réttan málstað. Og þeir geta ekki gert sér grein fyrir hver hinn rétti málstaður sé fyr en ákafi þeirra leyfir þeim að hugsa. Nákvæm yfirvegun allra hliða er nauðsynleg í öllum málum, því án hennar er ómögulegt að

vera viss um að því sanna og rétta sé fylgt fremur en því ósanna og ranga. En afleiðingar verulegs ofstækis eru þær, að menn fylgja einhverju, halda einhverju fram, sem grípur þá í svipinn, án umhugsunar, og án þess að gera sér far um að komast að sannleikanum.

Eins og vald yfir tilfinningum í öllum málum, sem menn ýmist koma sér saman um, eða deila um, er nauðsynlegt, svo er líka vald yfir tilfinningum í daglegu lífi. Sá sem hefir valdið yfir öllum tilfinningum sínum og hneigðum er sterkur, hann umgengst aðra með jafnaðargeði og nýtur sín bezt. Hvort sem það er skoðað frá sjónarmiði einstaklingsins, eða frá sjónarmiði annara, sem hann lifir með og umgengst, þá er líf þess manns, sem hefir vald yfir tilfinningum sínum, vald yfir sjálfum sér, bæði fegurra og betra en hins, sem skortir það vald.

"Af engu of mikið." Ennþá hefir þessi forna regla fult gildi. Hún gefur einstaklingslífinu fegurð og manndómsstyrk.

# TVÆR GOÐSAGNIR.

Þegar við lesum goðsagnir fornaldartrúarbragðanna undrumst við oft yfir hinum barnalegu hugmyndum um heiminn og lífið, sem birtast í þeim. Við berum þessar hugmyndir saman við það sem við vitum að er sannleikur, og við þann samanburð sýnast þær mjög heimskulegar og fjarri sanni. En samt hafa margar goðsagnir mjög fögur og háleit sannindi að geyma. Sannindin eru vitaskuld ekki falin í því, sem sagnirnar segja frá, heldur í hugmyndunum, sem mennirnir óafvitandi hafa ofið inn í þær, um leið og þeir mynduðu þær; en þær hugmyndir eru vaxnar upp úr lífsreynslunni, þær eru myndir þess, sem hefir borið við aftur og aftur, mannheimi, þó að sagnirnar segi frá, að það hafi gerst meðal guðanna.

Ein hin fegursta og áhrifamesta goðsögu, sem nokkurn staðar er að finna, er sagan af dauða Baldurs í norrænu goðafræðinni. Baldur var bezt-

ur og fegurstur allra Ása, og í bústað hans mátti ekkert óhreint vera. Goðin höfðu mikið dálæti á Baldri ; en út af því öfundaði hinn illi og slægvitri Loki hann. Baldur dreymdi drauma um dauða sinn, og voru þeir goðunum mikið áhyggjuefni. Óðinn fór til Niflheims og fékk að vita af völvu einni, að Hel ætti von á Baldri. Þá tók Frigg eiða af öllum hlutum í jörðu og á um að þeir skyldu aldrei vinna Baldri mein. Aðeins einn hlutur varð eftir, sem hún tók ekki eið af, en það var viðarteinungur ungur, sem mistilteinn hét, og óx skamt frá Valhöll. Loki komst að því hjá henni að mistilteinninn hafði ekki svarið að vinna ekki Baldri mein. Svo þegar goðin léku sér að því að skjóta ýmsum hlutum á Baldur til að sýna, að honum stafaði ekki hætta af neinu, fékk Loki Höður, bróður Baldurs, sem var blindur, mistilteininn, og skaut hann honum samkvæmt tilvísun Loka. Mistilteinninn flaug í gegnum Baldur og lét hann þar líf sitt. Goðin vildu fyrir hvern mun fá Baldur aftur, og sendu til Heljar og báðu hana um að skila honum aftur. Lofaði hún að gera það, ef allir hlutir grétu Baldur úr Helju. Og alt vildi gráta Baldur úr Helju, nema Loki einn. Hann bjóst í tröllkonulíki, og kvaðst mundu gráta Baldur "þurrum tárum." Varð hann þá ekki aftur heimt-

ur. En undir áhrifum Loka fór hið illa vaxandi meðal goðanna, unz að lokum að til skarar hlaut að skríða í hinni miklu og síðustu baráttu milli hins illa og hins góða.

Efnið í sögu þessari er stríðið milli góðs og ílls í heiminum. Baldur er ímynd þess góða, en Loki er ímynd þess illa. Loki var upprunalega ekki einn af Ásum; hann var jötna ættar. En goðunum vildi það óhapp til að þau tóku hann "vömm allra goða ok manna" í sinn hóp. Hugmyndin er sú, að þar sem það illa er, þar sem það kemst inn, spillir það öllu, og hið göfuga og fagra getur ekki verið með því og haldist hreint. Loki hafði mikil áhrif meðal goðanna, vegna kænsku sinnar, og beitti þeim öllum til íll. Það að hann varð valdur að dauða Baldurs var í samræmi við alla framkomu hans; en það var stærsta illverkið, sem hann vann. "Ok hefir þat mest óhapp verit unnit með goðum ok mönnum," segir í Eddu. Hið illa ryður sér til rúms, verður sterkara og sterkara. Afleiðingin verður sú, að það vinnur bug á hinu góða og heldur áfram að magnast, þar til ekki verður lengur við yfirráð þess unað, þá verður það að brjótast á bak aftur.

Það að Loki er látinn verða valdur að dauða Baldurs og því að hann næst ekki aftur úr Helju, virðist í fljótu bragði

benda á trú á sigur hins illa yfir hinu góða. En þess konar trú er eðlilega ekki til í trúarbrögðum jafn hraustra og þróttmikilla manna og hinar fornu norrænu víkingaþjóðir voru. Sigur Loka er enginn úrslitasigur. Í síðu..u baráttunni, sem lýst er í frásögninni um ragnarök, vinna Æsir og með þeim allir góðir menn sigur á Loka, hrímþursunum og öllu illþýði, sem berst með þeim. Hugmyndin um vaxandi og yfirgnæfandi áhrif hins illa er því ekki skoðun á tilgangi tilverunnar, heldur blátt áfram lýsing þess, hvernig fari, þegar hinu illa vex kraftur. Og auðvitað er það lífsreynslan, sem liggur til grundvallar fyrir hugmyndinni. Ilt og gott stríðir hvað á móti öðru, það er hvort öðru andstætt, og á milli þess hlýtur ávalt að vera barátta. Náttúrlega er það ekki í lífsreynslunni, að alt hið góða búi í sumum mönnum, en alt hið illa í öðrum. En þegar þessi barátta milli ílls og góðs er hafin í átrúnaðinum upp yfir hið mannlega, þá eðlilega verður skiftingin langtum ákveðnari en hún er í hinu verulega mannlífi; annað goðið verður ímynd þess góða, en hitt ímynd þess illa. Goðsögnin er ekki lýsing þess sem gerist í mannheimi, eins og það ber við dagsdaglega; hún er kenning, siðferðisleg viðvörun, sem miðar til þess að setja mönnum fyrir sjónir í sem sterkustum dráttum mismun góðs og ílls.

Það er enginn barnaskapur, engin heimska í þessu, heldur djúp speki. Að eins þegar heimssköpunarsagan, og fjölda margar aðrar, um athafnir goðanna eru teknar og skoðaðar í ljósi nútíðar þekkingar, kemur í ljós, hversu barnalegar goðsagnirnar eru, eða réttara sagt, hversu langt skilningur þeirra manna, sem mynduðu sér þær og trúðu þeim, hefir staðið að baki skilningi nútíðarmannsins á þeim hlutum, sem sífelt hafa knúð menn til að hugsa og leita úrlausna. En það ætti ekki að skyggja á lífssannindin, sem sagnirnar geyma í sér, eða skáldskapinn, sem oft og einatt er stórfeldur og fagur.

Enska skáldið og bókmentafræðingurinn nafnkendi, Mathew Arnold, orti langt kvæði um dauða Baldurs, sem er eitt með beztu kvæðum hans. Viðureign Loka og goðanna er lýst í kvæðinu sem baráttu milli góðra og illra krafta; og forlagakenningin, sem er svo rík í Ásatrúnni, kemur líka ákveðið í ljós. Óðinn er látinn segja, þegar Baldur er dauður, að dauði hans sé örlagadómur, sem hvorki guðir né menn geti umflúið. Og Loki á vísar hefndir fyrir illverkið, en ekki fyr en hinn ákveðni tími, tími, örlaganna er kominn. Enginn efi er á því, að hið hættumikla líf víkingaþjóðanna, þar sem mannslífið gat ávalt endað svo fljótt og ófyrirsjáanlega, hefir glætt örlagatrúna. Örlögin

voru eins konar allsherjar lögmál, sem alt líf var undirgefið. Enginn gat reist rönd við þeim, og þess vegna tjáði ekki annað en að beygja sig fyrir þeim og taka hverju, sem að höndum bar með ró og karlmensku. En á bak við örlagatrúna var samt vonin um betri og bjartari tilveru, þegar stríðinu milli hins góða og hins illa væri lokið. Þessi von var nauðsynleg til þess að lífsskoðunin yrði ekki of bölsýnisfull. Menn gátu ekki ímyndað sér, enda var það gagnstætt öllum þeirra lífsháttum, að þessi heimur yrði nokkurn tíma friðar og alsælu bústaður ; og af því spratt trúin á allsherjar eyðileggingu, og sköpun nýrrar jarðar, þar sem að allir illir kraftar yrðu að lokum yfirbugaðir.

Sagan um dauða Baldurs er fagur skáldskapur. En hún hefir líka að geyma djúpa speki, sem sýnir mikla athugun á lífinu og hinum ráðandi öflum þess. Náttúrlega er alt bundið og miðað við lífskjörin, sem menn þektu og áttu við að búa. En að svo miklu leyti sem hún lýsir þeim hvötum og eiginleikum manneðlisins, sem þeir Baldur og Loki eru persónugervingar af, má segja, að hún hafi eilíf sannindi að geyma.

---

Önnur merkileg og eftirtektarverð goð-

sögn, sem verið hefir yrkisefni margra skálda, er til okkar komin úr goðafræði Forn - Grikkja, sagan af Prómeþefs. Prómeþefs, sem var guða ættar, náði eldinum frá Seifi, sem var æðstur guðanna, og gaf mönnunum hann. Af þessu reiddist Seifur svo að hann sendi hið illa í heiminn. Þetta er sagan í sinni upprunalegu mynd. En eitt af höfuðskáldum Grikkja á fjórðu öld fyrir Krists fæðingu ritaði sorgarleik um afdrif Prómeþefs. Lætur hann reiði Seifs bitna á honum fyrir það að hann stal eldinum og færði hann mönnunum. Refsaði Seifur honum með því að binda hann við klett; en gammur einn var látinn slíta úr honum lifrina. Þessar kvalir átti hann að þola um aldur og æfi. Í þessum búningi er sagan lýsing hinnar endalausu baráttu milli harðstjórnar og frelsisþrár, sem var svo stórt atriði í lífi Forn-Grikkja sjálfra og allra þjóða, sem þolað hafa einveldiskúgun og brotið hana af sér.

Prómeþefs veit af því að hann hefir unnið mannkyninu ómetanlegt gagn. Hann einn hefir djörfung til þess að rísa upp á móti vilja hins æðsta valds í heiminum. Þegar aðrar verur biðja Prómeþefs vægðar hjá Seifi, þora þær ekki annað en að viðurkenna, að hann hafi gert rangt í því að óhlýðnast boði Seifs ; þær eru hræddar við valdið. En

Prómeþefs óttast það ekki. Hann er ímynd uppreisnarmannsins, sem heldur fram sínum rétti, hvaða hættu sem það stofnar honum í. Hann hefir í hótunum við Seif, spáir því að vald hans muni einhvern tíma verða brotið á bak aftur og hann sjálfur leystur frá kvölunum. Spádómurinn fær Seifi áhyggju. Hann vill fá að vita með hvaða hætti sitt vald muni líða undir lok, og lætur hóta Prómeþefs meiri kvölum, ef hann segi ekki frá því. En Prómeþefs kýs heldur að þola alt ílt, sem Seifur geti á sig lagt, en að beygja sig í nokkru undir vilja hans. En spádómurinn stendur. Einhvern tíma missir harðstjórinn vald sitt, og þá verður sá, sem var hneptur í fjötra fyrir að vinna gott og göfugt verk, sá sem ekki beygði vilja sinn undir ofurvaldið, leystur.

Prómeþefs sagan í þessari fyllri mynd er ekki eins hrein goðsögn og sagan af Baldri. Skáld er búið að fara með hana og að nokkru leyti að umskapa hana. En ekki breytir það neitt gildi hennar; því allar slíkar sagnir eru upprunalega verk einhverra skálda, þó að trúin, sem í þeim felst, hafi verið eign allra jafnt. Hugmyndin, sem felst í sögunni er þessi: eldurinn, þetta mikla og nauðsynlega framfaraskilyrði mannkynsins, var í höndum þess, sem ekki vildi gefa mönnunum hann. Hann var einvaldur og

enginn gat neytt hann til þess. En þá kemur sá fram, sem hefir djörfung til að rísa upp á móti því sem honum finst óréttindi. Hann nær eldinum óleyfilega. Verkið færir blessun yfir heiminn. Hann segist hafa gert rétt, og tekur við afleiðingunum, þótt illar séu, fremur en að kannast við að hann hefi gert rangt og biðjast vægðar. Hvað er þetta annað en lýsing á viðureign þess manns,sem mannkyninu til góðs berst á móti kúgun og ófrelsi, og þess sem notar valdið til að halda því föstu, sem miðar mönnunum til heilla og blessunar. Prómeþefs er ímynd allra sem berjast fyrir frelsi, Seifur er ímynd kúgunarvaldsins. Þetta er aðal innihald sögunnar, þó að hún hafi upprunalega átt að sýna, hvernig menn eignuðust eldinn, og ef til vill,hvernig hið illa kom í heiminn,sem hegning fyrir óhlýðni við hið hæsta vald.

Goðsagnirnar eru skuggsjá mannlífsins. Að nokkru leyti eru öll trúarbrögð það þó að þau fyrst og fremst séu leit mannsandans út í hið óþekta að undirrót lífsins og tilverunnar. En goðsagnirnar, sem sýna oss stærstu og dýpstu drætti mannlífsins í fögrum og skáldlegum búningi, eru fjársjóðir, sem eru þess verðir að vera dregnir við og við fram í dagsljósið, ef ekki til annars, þá til þess að sýna okkur að ávalt er lífið hið sama, þrátt fyrir allar breytingar, og að sömu hvatir

ráða verkum manna öld eftir öld, þó að trú og siðir taki marghátttuðum breytingum. En hversu oft sem Prómeþefs er bundinn rakna fjötrar hans; og ávalt rís hinn góði Ás upp aftur, þó að mistilteinninn verði honum oft að tjóni. Í því er framför lífsins falin og þess sigur.

---

## ÞJÓÐERNIÐ.

Hvað lengi getum við Vestur-Íslendingar haldið við þjóðerni okkar og tungu hér í landi? Þessi spurning vakir fyrir mörgum Vestur-Íslendingi, og mikið hefir verið um hana rætt, meira, ef til vill, en um nokkurt annað mál. Skoðanir okkar á því eru mjög skiftar, sem er ekki ónáttúrlegt, því bæði er málinu þannig farið, að það er rúm fyrir mismunandi skoðanir í því, og svo er það ekki eitt af því sem einkennir hugsunarhátt okkar og afstöður í nokkru máli, að vera sammála. Má sjálfsagt segja með sanni, að sundurlyndis tilhneigingin gangi stundum helzt til langt, sem líka er oft gert, mest samt af þeim, sem minst vilja höndum saman við aðra taka; en að hinu leytinn má mæla henni það til bóta, að hún beri

vott um tilraun til að vera sjálfstæður í skoðunum. Í þjóðernismálinu eru þrjár aðalskoðanir ríkjandi, og má skifta flestum Vestur-Íslendingum í þrjá flokka eftir þeim.

Fyrst eru þeir sem segja að íslenzk tunga og íslenzkt þjóðerni hljóti að hverfa hér, og það áður en langt um líður. Þeirra skoðun er blátt áfram, að það sé ómögulegt að halda því við, og þess vegna sé tilgangslaust að vera að reyna það. Í þeirra augum er íslenzka þjóðarbrotið hér eins og ofurlítil lækjarspræna, sem rennur út í geysistórt haf. Vatnið úr læknum blandast saman við hafið og verður aldrei frá því skilið aftur. Að vísu heldur lækurinn altaf áfram að renna, og þannig bætist altaf ofurlítið af nýju vatni úr honum við í hafið, sem um stund getur haldist ferskt í lækjarósnum. En innflutningur Íslendinga hingað til landsins er svo lítill, og má heita alveg stöðvaður nú, hvað sem verða kann í framtíðinni, að í rauninni verður ekki annað sagt en að uppspretta íslenzka þjóðernisins hér vestan hafs sé að þorna upp. Afleiðingin af þessu verður óhjákvæmilega sú, að þegar aldur einnar eða tveggja kynslóða er liðinn, verðum við horfnir inn í hérlent þjóðlíf og búnir að glata máli okkar og öllum þjóðareinkennum. Nokkrir í þessum flokki halda fram, að þetta sé ekki aðeins það sjálf-

sagða og óumflýjanlega, heldur einnig að það sé gott, eigi svo að vera, og að það sé sjálfum okkur fyrir beztu; og þess vegna beri okkur að flýta fyrir því.

Þá eru þeir, sem segja, að það sé vel mögulegt að halda við tungunni og þjóðerninu. Þeir líta öðrum augum á þjóðarbrotið og framtíð þess. Það kemur þeim ekki fyrir sjónir líkt og þornandi straumur, sem rennur í haf út, og sem hlýtur að hverfa og skilja ekkert eftir nema þornaðan farveg, heldur miklu fremur eins og planta, sem hefir verið tekin upp með rótum úr jarðveginum, sem hún fæddist og óx í, og flutt í nýjan jarðveg. Þó að þjóðarbrotið breytist nokkuð við flutninginn, og verði að semja sig að nýjum staðháttum og verða að nokkru leyti samgróið nýju þjóðlífi, er ekki sjálfsagt að það breytist algerlega, verði annað en það er, fremur en að plantan, sem er flutt úr einum jarðvegi í annan, breytir algerlega byggingu sinni og útliti. Og þar sem að það er mögulegt að halda þjóðerninu og tungunni við, er sjálfsagt að gera það; það er ræktarskylda við föðurlandið og kynstofninn. Ef þeir Íslendingar, sem nú lifa hér í landi leggja rækt við málið og glæða þjóðernismeðvitund sína, þá getur, samkvæmt skoðun þessa flokks, hvortveggja geymst hér langa lengi enn. Líklega vildi enginn spá neinu um það, hversu lengi, í árum

talið, enda er það ekki aðalatriðið, heldur hitt, hvort íslenzkt mál og íslenzk þjóðernismeðvitund getur varað mikið lengur en aldur þeirrar kynslóðar, sem nú er uppi.

Í þriðja flokknum eru þeir, sem hvorki hafa mikla trú á viðhaldi þjóðernisins, né telja það sjálfsagt að það líði undir lok innan skamms. Þeir líta svo á, það er að segja þeir af þeim, sem nokkuð hugsa um það og ekki stendur alveg á sama, að allar tilraunir til að halda málinu og þjóðernismeðvitundinni við séu næsta þýðingarlitlar, en þeim finst þær ekki gera neinn skaða, eða vera því til tafar, að þeir, sem af íslenzku bergi eru brotnir, færi sér í nyt alt sem þeim býðst í hérlenda þjóðlífinu. Það sem menn hafa flutt með sér inn í landið, hlýtur að vara um tíma, nokkuð lengur en þeir lifa, sem inn hafa flutt, að einhverju leyti meðal afkomenda þeirra. En náttúrlega fer það smáminkandi, eftir því sem tímar líða. Það er engin þörf á, og það er ekki æskilegt, að reyna að losna við það, heldur er lang réttast að láta það deyja út með tímanum. Eða með öðrum orðum, við eigum að taka við hérlendum áhrifum og samlagast hérlendu lífi, þangað til það er búið að gegnsýra okkur svo, að við erum ekki lengur Íslendingar ; við eigum hvorki að standa á móti þessum áhrifum né gera

okkur far um að flýta fyrir þeim ; við eigum að láta fara sem fara vill í því efni, og gera okkar engar áhyggjur út af því, hvort við verðum orðnir al-kanadiskir eða al-amerískir á fimtíu árum eða hundrað árum. Og lang flestir eru eflaust þeir, sem hugsa eitthvað á þessa leið. Þeir eru hvorki með þjóðerins viðhaldinn né á móti því. Þeir vilja bara að við mótustum hægt og hægt og á sem þægilegastan hátt, þar til við erum orðnir það sem við hljótum að verða—alinnlendir og lausir við öll útlendingseinkenni. Á móti þessari hægfara breytingu tjáir ekki að standa, hún verður að koma smám saman.

Tvær andstæðar skoðanir geta ekki verið báðar réttar. Annað hvort verður önnur að vera rétt, en hin röng, eða báðar rangar. En svo geta skoðanir verið að nokkru leyti réttar og haft við heilmikið að styðjast, þó að þær verði rangar, þegar þeim er haldið fram skilyrðislaust. Skoðanirnar á viðhaldi þjóðernisins, sem á hefir verið minst, hafa allar eitthvað við að styðjast, en engin þeirra er alvegrétt.

Það fyrsta, sem að útlendingurinn rekur sig á, hvar sem hann er staddur, er það, að honum er ekkert eins nauðsynlegt og að læra mál þess fólks, sem hann ætlar að umgangast og eiga viðskifti við. Þegar Íslendingar komu fyrst til Ameríku

var ekkert eins nauðsynlegt fyrir þá, ekkert sem þurfti eins fljótt að leggja alla rækt og alúð við, eins og það að læra enskuna. Að standa uppi mállaus var að standa uppi ráðþrota ; það þýddi það að standa margfalt ver að vígi í öllu en þeir sem fyrir voru. Eðlilega varð því fyrsta tilraunin fyrir öllum að læra svo mikið í málinn að þeir gætu bjargað sér. Vanalega gekk þetta fljótast og bezt fyrir þeim, sem tóku sig sem mest út úr Íslendingahópnum og reyndu að öllu leyti að samlaga sig sem bezt enskumælandi fólki. Það var því ekki óeðlilegt, þó að á þeim árum kæmist sú skoðun inn hjá mörgum, að úr því hingað væri komið, þá væri tilgangslaust að vera að halda í nokkuð sem maður hefði komið með með sér, mál eða annað. Bezt væri að losa sig við það sem fyrst, verða eins og innlent fólk eins fljótt og auðið væri. En það er hægar sagt en gjört að losa sig við öll útlendingseinkenni í nýju landi á fáum árum. Það var hægt að læra málið og taka upp nýja hætti og siði, en að komast svo vel inn í mál og hugsunarhátt yfirleitt að menn yrðu andlega rótfastir í hinum nýja jarðvegi, ef svo má að orði kveða, var náttúrlega alveg ómögulegt. Annaðhvort urðu Íslendingar að hafa andlegt samneyti og félagslíf sín á milli, eða vera um langan tíma alveg án þess að hafa félagslíf og

samneyti við nokkra menn, fram yfir það sem var nauðsynlegt við dagleg störf og viðskifti. Það hefði verið ónáttúrlegt, og enda óskiljanlegt, ef Íslendingar hefðu horfið strax inn í enskumælandi þjóðina, hér ; til þess hefði þurft svo mikla breytingu, miklu meira en það að læra eitt mál og hætta að tala annað, breytingu, sem enginn getur í raun og veru gengið gegnum á fáum árum og margir ekki á hálfri mannsæfi eða meira. Íslenzkt félagslíf varð að myndast, einhvers konar sameining um það, sem menn áttu saman, en sem aðskildi þá frá öðru fólki, sem var í öðrum þjóðlífsjarðvegi vaxið.

En um leið og íslenzkt félagslíf var komið á, þó í mjög smáum mæli væri, um leið og samlífsþörfinni var að einhverju leyti fullnægt, var grundvöllur lagður undir þjóðernis viðhald ; þjóðernið sjálft reisti sér vígi. En samt var það augljóst, og reynslan sýndi það æ betur og betur, að það var gagnlegast að lifa sig sem mest inn í það líf, sem lá fyrir utan þjóðernistakmörkin. Margir hafa eflaust fundið til þess, að lífið var tvískift, ekki aðeins að því leyti að tvö mál urðu að notast, heldur tvískift niður að rótum, þar sem menn urðu að starfa á tveimur sviðum, sem í raun og veru voru ólík, þó að þau ekki að öllu leyti útilokuðu hvort annað. Af þessu stafar það, að allmörgum, og það

sumum þeim, sem hafa hugsað mest um framtíðarheill hins íslenzka þjóðarbrots, hefir fundist það bæði sjálfsagt og æskilegt að það hyrfi sem fyrst inn í hina enskumælandi þjóð hér. Þeir hafa litið á það þannig, að hver einstakur maður gæti ekki notið sín að fullu fyr en hann væri algerlega kominn inn í þjóðlífið sem hann lifir í. En til þess yrði hann að samlagast því sem mest í hugsunarhætti yrði að telja sig til þess, skoða það sem sitt, og sig því tilheyrandi. Meðan Íslendingar héldu þjóðerni sínu við hér væru þeir hálf útilokaðir frá þátt-töku í lífi og málum alþjóðarinnar, og það stæði þeim á margan hátt fyrir þrifum. Að segja að þessi skoðun sé að öllu leyti röng er ekkert annað en að loka augun um fyrir sannleik, sem er öllum augljós. Vitanlega standa þeir bezt að vígi og geta mestan þátt tekið í málum landsins og þjóðarinnar, sem bezt lifa sig inn í landsmálin og þjóðlífið ; og þá um leið fjarlægjast mest, að sumu leyti, sitt sérstaka, útlenda þjóðflokkslíf.

En þeir sem hafa haldið þessari skoðun fastast fram, hafa gleymt því að slík umskifti geta ekki orðið alt í einu. Nokkrar þúsundir manna get. ekki kastað frá sér þjóðerniseinkennum sínum og þjóðernismeðvitund og farið að vera annað en það sem uppeldi og líf þeirra eigin þjóðar á mörgum liðnum öldum

hefir undirbúið þá til að vera. Og hér er það sem skoðun þeirra, sem halda að vernda megi íslenzkt þjóðerni lengi hér í landi, fær langmestan stuðning. Við getum ekki losnað við þjóðernið, þó að við fegnir vildum. Strax og hingað var komið gerði þörfin fyrir íslenzkt félagslíf vart við sig. Annaðhvort varð samlíf að myndast meðal Íslendinga sjálfra, eða þeir urðu að vera útilokaðir frá andlegu samneyti með öðrum mönnum. Og þegar samlífið var myndað, þá hjálpaði það til að viðhalda þjóðerninu ; og ennþá er það, og verður ávalt, sama reynslan fyrir öllum. sem eru fæddir á Íslandi og hafa flutt hingað ; að kasta frá sér þjóðerni sínu þýddi það, að standa uppi eins og rótlaust tré. En slíkt er gagnstætt mannlegu eðli. Þjóðernið er eitthvað sem við berum í okkur og höfum tekið í arf, þar sem við erum fædd og upp alin. Það bindur okkur við vora eigin þjóð, hvar sem við förum. Þessu verður ekki breytt, því það er náttúrulögmál, sem er sterkara en jafnvel allar venjur ; óefað langtum sterkara en hagsmunaleg áhrif.

Þjóðernistilfinningin er sterkt afl í sálum innflytjendanna, sem ekki geta, þó að þeir vildu, burt skafið áhrifin, sem hafa frá barnæsku sett sín einkenni á hugsunarhátt þeirra og sálarlíf. En hún er engan vegin eins sterkt afl í sálum afkom-

enda þeirra, sem eru fæddir og upp aldir í hinu nýja landi; eða réttara sagt, þeir fá nýja þjóðernismeðvitund, sem feður þeirra og mæður þektu ekki; og hún bindur þá við það land, sem er orðið þeirra föðurland, og þá þjóð, sem þeir læra að skoða sína þjóð. Fæstir, sem tala um íslenzkt þjóðernisviðhald hér virðast hafa gert sér ljósa grein fyrir þessu, fæstir sjá hversu gagnólík afstaða barnsins er afstöðu foreldrisins gagnvart þjóðerninu. Samt reka allir sig á þetta dags daglega. Við höfum sýnishorn af því í málinu. Það er ekki mjög óalgengt að íslenzkir foreldrar og börn talist við þannig, að foreldrarnir noti að mestu leyti íslenzku, en börnin að mestu leyti ensku. En það er ekki í málinu einu sem þetta kemur í ljós. Það kemur ennþá betur í ljós í hugsunarhættinum og allri meðvitund um gildi þess, sem einstaklingurinn þiggur af samfélaginu. Hinn íslenzki þjóðararfur, sem hver sá, sem er fæddur og upp alinn með íslenzkri þjóð, ber í sér, hvort sem honum er það ljóst eða ekki, er eitthvað útlent og hálf óviðkomandi í augum þeirra, sem fæðast og alast upp hér í Ameríku, undir þeim áhrifum, sem hérlent þjóðlíf hefir á þá. Hugsunarháttur barnanna hlýtur að mótast af þeim áhrifum sem þau verða fyrir hér, bæði í mentuninni, sem þau fá, hvort sem hún er mikil eða lítil, og í öllu

félagslegu lífi með innlendu fólki. Þau þurfa ekki um tvent að velja, annaðhvort að halda samfélagi við fólk af sínum eigin þjóðflokki, eða hafa ekkert samfélag með öðrum, nema það sem er nauðsynlegt við vinnu og viðskifti. Börnunum standa hér ótal vegir opnir, sem voru foreldrum þeirra lokaðir ; þau eru hér í sínu eigin landi, þar sem foreldrarnir, aftur á móti, komu inn í óþekt land.

Það er þetta, sem gerir þjóðernisviðhaldið að svo erfiðu máli. Hvað á að gera til þess að unglingar, sem af íslenzku bergi eru brotnir, finni til skyldleika milli sín og hinnar íslenzku þjóðar? Hvað á að gera til þess að þeir fái, ræktarþel til síns þjóðflokks, sem sé nógu öflugt til þess að þeir kannist fyllilega við ætt sína, og hafi vakandi meðvitund um hvaðan þeir eru, nógu öflug til þess, að þeir vilji fyrst og fremst vera þektir sem Íslendingar?

Ekki tjáir að standa á móti innlendu áhrifunum. Hvorki er það unt, né heldur mundi það verða okkur til nokkurs annars en ílls eins. Við verðum að skoða okkur sjálf sem hérlent fólk, en hreint ekki sem útlendinga. Náttúrlega erum við öll, sem hingað höfum flutt útlendingar, getum ekki hjá því komist og eigum ekki að reyna að komast hjá því. En að þeir sem hér eyða allri æfi sinni,

frá vöggu til grafar, skoði sig á nokkurn hátt útlenda ætti ekki að koma til mála. Það er aðeins einn vegur til að viðhalda þjóðerninu, og hann er sá, að allir Islendingar geymi verulega íslenzka þjóðernismeðvitund, hversu mikið sem þeir blandast inn í hérlent þjóðlíf.

Er þetta mögulegt? Um það erum við ekki sammála. Þeir, sem halda að íslenzka þjóðarbrotið hér muni hverfa, eins og dropi í hafið, mundu segja að tvöfalt þjóðerni sé óhugsandi; þeir vilja gera alt, sem unt er til að viðhalda íslenzku þjóðerni, mundu segja, að það sé nauðsynlegt að veita innlendu áhrifunum nokkurt viðnám, því annars eyðileggi þau alt, sem er íslenzkt í okkur. En gætum nú að, hvað þetta þjóðerni er, sem við komum með og sem getur þrifist hér.

Það er ekki siðir og hættir, engin ytri einkenni, sem annað fólk getur strax séð og bent á hvar sem Íslendingur er staddur; það er ekki fastheldni við neitt, sem í daglegu lífi er einkenni íslenzku þjóðarinnar, en engrar annarar þjóðar. Alt þess konar breytist og hverfur um allan heim nú á dögum. Í útliti og siðum er sára lítill munur á þjóðum, sem teljast til sömu ættbálkanna, og fer stöðugt minkandi. Þjóðernið er andlegs eðlis, það er andlegur arfur en ekki líkamlegur. Íslenzka þjóðin á sína sögu, sögu,

sem segir frá kjörum hennar og baráttu fyrir tilverunni öld fram af öld ; hún á sínar bókmentir, og þær birta hið innra líf þjóðarinnar ; íslenzka þjóðin hefir búið undir áhrifum náttúru landsins, og náttúran hefir einkent sálarlíf hennar; íslenzka þjóðin hefir átt sín þjóðarmál og sína frelsisbaráttu. Það er þetta, sem okkur kemur í hug, annaðhvort ljóst eða óljóst, eftir ástæðum, þegar við tölum um íslenzkt þjóðerni. Og hvers vegna er þetta eitthvað, sem við eigum að kæra okkur um, eitthvað sem við eigum að elska og bera lotningu fyrir? Vegna þess að það er spegill þess lífs, sem íslenzka þjóðin hefir lifað, frá því hún varð þjóð; og við erum íslenzkt fólk, fæddir af þeirri þjóð, sem hefir lifað þessu lífi, og átt þá sérstöku reynslu, sem þessi sögulegi og bókmentalegi arfur ber vott um. Fyrir okkur Vestur-Íslendinga er þjóðernisviðhaldið ekkert annað en það, að geyma endurminningu um þetta þjóðlíf og hafa það á meðvitund okkar, að við stöndum í sérstöku og óslítandi sambandi við það. Í stuttu máli, vort íslenzka þjóðerni er tilfinning um að íslenzkt þjóðlíf, íslenzk saga, íslenzkar bókmentir, íslenzk lífskjör, bæði fyr og síðar, hafi sérstakt gildi fyrir okkur, vegna þess að við erum komnir frá þjóðinni, sem hefir lagt þetta fram í sögu mannkynsins.

Og skilyrðin fyrir því aö við getum verndað þjóðernið eru þau, að við verndum málið, og að við verndum minninguna og ræktarþelið. Þau skilyrði er ekki auðvelt að uppfylla, en ómögulegt er það ekki. Langmest er undir því komið að sú kynslóð, sem hingað hefir flutt, leggi rækt við það að koma inn hjá þeirri næstu tilfinningu um ræktarskyldu. Án hennar er kennsla í málinu gagnslaus, án hennar kemur það að engu haldi þó að örfáir mentamenn kynnist íslenzkum bókmentum á líkan hátt og þeir kynnast bókmentum annara útlendra þjóða. Íslenzkt félagslíf og íslenzkar kyrkjur vinna ekki þetta verk. Allir Íslendingar verða að vinna það í sameiningu, verða aö vinna það af ást til þjóðar sinnar og lands síns.

Og er þá ekki allur skoðanamunur um þetta mál sprottinn af of einhliða áherzlum og of lítilli umhugsun um hvað það er, sem þarf að vernda og geyma? Eru ekki þeir, sem telja viðhald þjóðernisins ómögulegt, hræddir við of mikla einangrun? Og eru ekki þeir, sem mest bera þjóðernisviðhaldið fyrir brjósti, hræddir um, að ef engin einangrun á sér stað, þá beri alt að þeim brunni, að íslenzkt þjóðerni hverfi með öllu? En hvorugt þarf að verða, og allir ættu að geta komið sér saman um eina skynsamlega stefnu í þessu máli, þegar öllum mis-s[illegible]ingi er úr vegi rutt.

